# ÁRDÍS

## ÁRSRIT
## Bandalags lúterskra kvenna

V. HEFTI



WINNIPEG 1937

# ÁRDÍS

## ÁRSRIT
## Bandalags lúterskra kvenna

V. HEFTI.

*Ritstjórar:*
*Ingibjörg J. Olafsson, Hólmfríður Daníelsson*

*Manager:*
*Guðrún Johnson.*

WINNIPEG 1937.

*EFNISINNIHALD.*







# Íhugunarverð stefna.

Tímarnir breytast og mennirnir með!

Mannfélagið heldur áfram að yngjast upp og mikið er lagt í sölurnar til þess, að auka þroskann. Foreldrar, kynslóð eftir kynslóð, halda áfram að fórna lífi og heilsu til þess, að börnin fái notið gæfunnar. Sárustu vonbrigðin sem til eru í lífinu eru vonbrigði foreldranna út af efnilegum börnum sem fyrir mikla fórnfærslu þeirra áttu að verða mikil og göfug, en urðu auðnuleysingjar og ef til vill óbótamenn.

Tímarnir breytast og menningin fer vaxandi! En fer menningin vaxandi? Gerum vér oss grein fyrir breytingunum? Höfum vér tekið eftir að óðfluga fer í vöxt áberandi lítilsvirðing fyrir öllum lagaboðum, Guðs og manna, einkum hjá börnum hinna ríku? En hin verða ekki langt á eftir. Nú er það hreint ekki álitin nein vanvirða lengur að komast hvað eftir annað í "klær laganna" fyrir drykkjuskap, ofsa keyrslu í bílum, sem veldur oft lífstjóni saklausra, og önnur afbrot. Unglingarnir, ofsaddir af skemtanalífi álíta þetta aðeins nýjan gamanleik, klókir lögmenn fá þá sýknaða, "og pabbi borgar". Vitum vér að hreyfimyndir eru sýndar þar sem söguhetjurnar eru fyrirliðar ræningjaflokka (gangsters)? Þjóðfélagið tekur við þeim opnum örmum; er iðn þeirra álitin að meira og minna leyti löghelg atvinna (enda er hún oft vernduð undir handarjaðri laganna og mönnum mútað til þess). Er nokkur furða þó að unglingarnir fyrirlíti lögin og fari sína leið?

Ekkert þýðir að reyna að telja sjálfum oss trú um að alt þetta fólk sé að eðlisfari spiltara en yfirleitt gerist. Það er þjóðfélagið í heild sem er sýkt og þarf lækningar. En ekki dugar lengur að setja strangar hömlur án nokkurs skilnings á hvoruga hlið. Það verður að breyta afstöðu einstaklinga; breyta því stjórnarfyrirkomulagi og umbæta þau menningartæki sem framleiða sýkt þjóðfélag.

Verður það aldrei gert nema með aukinni þekking og skilningi leiðtoga og fólksins í heild.

En fyrst og fremst er það, og verður, verk foreldra og kennara barna að móta svo huga þeirra og sálir að þau fái jafnvægi og sjálfstæði til að meta, að það er meira virði að standa einn og berjast fyrir lækningu þjóðarmeinanna, en berast með straumi ástríðanna í hópi hinna hugsunarlausu.

# Góður gestur.

eftir Ingibjörgu J. ólafsson.



Einn fagran morgun í maí mánuði söfnuðust saman á C. P. R. járnbrautarstöðinni í Winnipeg nokkrar konur. Var það auðséð á svip þeirra og látbragði að þær höfðu komið þangað í vissum erindum. Voru þær ellefu að tölu, erindsrekar frá Þjóðræknisfél. Vestur-íslendinga, frá Bandalagi Lúterska Kvenna, frá Hinu Sameinaða Félagi Sambandskvenfélaga og frá Jóns Sigurðssonar félagi og frá Hannyrðafélagi Kvenna í Winnipeg.

í kringum kl. 10 brunaði "í hlað" lest austan frá hafi; ein úr þessum hóp fékk leyfi til að fara um borð í lestina og leiddi þaðan út gestinn sem eftir var beðið. Var það frk. Halldóra Bjarnadóttir frá íslandi.

Var svo keyrt í bílum til Marlborough Hotel og notið dagverðar. Voru frk. Halldóru flutt þar ávörp frá hinum ýmsu félagsheildum sem þátt tóku í að bjóða hana velkomna. Mynduðust þar vinabönd sem munu haldast lengur en þann tíma sem frk. Halldóra dvelur vestan hafs. Þau munu vara þó hafið verði á milli.

Vestur íslenzkar konur bjóða frk. Halldóru innilega velkomna, samfagna systrunum heima að eiga þá ágætu starfskonu. Því víðar sem hún ferðast um bygðir hér vestra og flytur erindi og sýnir þá muni er hún hefir meðferðis, því meiri ítök mun hún eignast. "Árdís" óskar henni blessunar í starfi sínu, óskar að dvölin hér vestra megi vera henni sem yndislegust, óskar henni svo heillrar heimkomu og biður blessunar yfir framtíðarstarf hennar á íslandi.

---

# Verðug viðurkenning.



Fyrir tveimur árum síðan var sú verðuga viðurkenning veitt skáldkonunni góðu frú Jakobínu Johnson að henni var boðið heim til íslands. Boð það kom frá Ungmennafél. íslendinga, Landskvenna Sambandinu og Félagi Vestur-íslendinga í Reykjavík.

Vér höfðum oft dáðst að ljóðum hennar; dáðst að henni sjálfri er hún ferðaðist um bygðir hér fyrir nokkrum árum, dáðst að þessari þreyttu móður sem í kyrþey vann sín húsmóðurstörf vestur á Kyrrahafsströnd. Með sál sína fulla af söng og ljóðaþrá orti hún við verk sín og sendi oss kvæði eitt og eitt, sem snertu svo djúpa strengi í sálum vorum. — Og þessvegna glöddustum vér svo innilega þegar það fréttist að henni var boðið til íslands. Vér vorum stoltar af að vita hana fara sem merkisbera vestur-íslenzkra kvenna.

Á íslandi var henni sýnd verðug viðurkenning, var hún leyst út með gjöfum að íslenzkum sið. Á meðal þeirra gjafa voru mörg fögur ljóð. Hefir hún lánað "Árdísi" nokkur þeirra er hér fylgja með. — Hver okkar vildi ekki hafa ort þetta ljóð?

## Til frú Jakobínu Johnson 1935.

---

Það er stundum þögult kringum
Þær, sem heima vinna.
Ljósin þurfa að ljóma og tindra
Á leiðum flestra hinna.

Svona eru margar sögur geymdar
Segir fátt af einum.
Stundum eru stórir vængir
Stýfðir þar í leynum.

Skuggarnir og skilningsleysið
Skýla vængjatökum,
Enginn veit, hve oft er grátið,
Aldrei spurt að sökum.

Heimilanna verndarvættir
Vegnar eru — í trygðum
Þessar sýnir þyngja skapið,
Þögn er yfir bygðum.

En úr fjarlægð ómur berst oss
Undur hreinn og blíður
Er frá þínum arni hljómar
Einsöngur svo þýður.

Okkur finst við, ljúfu lögin
Ljóðin þín hin hlýju,
Eins og strengir eigin sálar
Ómi þar að nýju.

Hve við þökkum þessa söngva!
Þeir eru okkar vinum,
Þögnuð andvörp okkar margra
Ómar vors frá hinum. —

— Sumardraumar okkar allra
Er í geislum hlóu,
Ólgan sem í æðum streymdi,
Orðin sem að dóu.

Eilíf glóð, sem átti að loga
Æfinlega heima,
Þessi hjartans innri eldur
Er þér tekst að geyma.

Hjartans mál og hjartaglóðin
Hlýjar, lýsir, vekur.
Þennan helga arineldinn
Enginn frá þér tekur.

---

Það er oft frá æðri veröld
Er þér kraftinn gefur
Þegar fölskvast okkar eldar
Alt þú bjarma vefur.

Kraftaverk af kvenna höndum;
Að knýja strengi svona. —
Þannig lastu úr leyndum rúnum
Að lifa — og vera kona.

**Ingibjörg Benediktsdóttir.**

## Til skáldkonunnar frú Jakobínu Johnson.

Þú veizt að í sumar var sólin treg
Að signa okkar blessuðu runna.
En "heim" lágu spor þín um hafsins veg
Og mitt hjarta fékk ljóð til að unna.
Þín meistarahönd festi málverkið þar
Sem myrkvastur skugginn í hug mínum var.

En sjálf áttu heima við sólar tind
Og sál þín á vizku steininn.
Því veitti mér svölun þín ljóðalind
Og læknaði hjartans meinin.
Ó blessi þig Drottinn, og blómríkt vor
Þér beri hvert einasta framtíðarspor.

J. Auðuns.



## Til frú Jakobínu Johnson, skáldkonu.

Þú hefir landið þitt litið,
í ljósbaði vorbjartra daga,
Hlustað á hrynjandi elfur
Með hljómmagni rímaðra braga
Gengið um gróandi reit,
Þar gerðist þín ættmannasaga.

Fundið hve taugarnar treystast,
Sem tengja við ættjarðar gróður
Brætt saman minninga brotin
Úr brenslu hjá föður og móður,
—Og blærinn sem berst um þær slóðir
Á boðskap sem hlýr er og góður.

Ilmur úr laufgrónum lyngmó
Ljósblik við hafsbrúnum nætur,
Morgunkyrð döggvaðra dala
Djúpuðg við fjallanna rætur
Alt á það bergmál sem ansar
öllu sem fagnar og grætur.

Svo íslenzk sem ljóðin þín eru,
Og átthögum feðranna bundin,
Þá andar nú áhrifum nýjum
örstutta heimkomu stundin.
Í óð þinn á ókomnum dögum
Hjá arninum handan við sundin.

Þaðan berst íslenzkur arfur
í ættliði dætra og sona;
Og íslenzk orð verða notuð
Sem aflgjafi framtíðar vona.
Þökk fyrir æfistarf unnið
íslenzka göfuga kona!

**Kristín Sigfúsdóttir.**



**Til frú Jakobínu Johnson.**

---

Með farfuglunum kom hún sem vængjuð vorsins dís,
Já vor er lífsins yndi, og þar er gleðin vís —
— En hitt má kalla töfra, er haustkvöld inni í sal
Býst helgiskrúða vorsins, með blóm og fuglahjal.

En það var líka Sólrún er "landabréfið" bar,
Hún bjó um stund með álfum, og lærði sitt hvað þar.
— En samt í gegnum töfrana sáu menn og fljóð
Að sannnefnd kona og móðir á leiksviðinu stóð.

Hún sýndi okkur gjörla, við gullinstrengja spil,
Hve gaman er að lifa, og sælt að finna til,
Og þreföld þökk sé öllum er þessi greiddu spor
Og seiddi brúði Braga í bæinn heim til vor. —

**(Ljóðavinur) Ingveldur Einarsdóttir.**

---

# Kraftur bænarinnar í daglegu lífi.

eftir

Guðrúnu Ásgeirsdóttur Johnson.

Á þingi Bandalags lúterskra kvenna á Riverton 4. júlí 1937.

---

Eg hefi verið beðin að flytja hér stutt erindi um ákveðið efni. Eg hefi ekki valið það sjálf. Það er hugljúft, en svo háleitt, að maður hikar við að fara orðum um það. Þó er daglegt bænalíf eitt af því allra fyrsta, sem hverju barni er kent og innrætt, ef það á kristna foreldra, og ósköpin öll hefir verið um þetta efni talað og skrifað, og að sjálfsögðu margt af því miklu betur gert heldur en eg á kost á að gera. En þrátt fyrir það verður ekki betur séð, en þeir séu enn margir sem hafa annaðhvort litla trú, eða enga á krafti bænarinnar. Ef þeir hefðu slíka trú, mundu þeir iðka bænina meir, en þeir virðast gera í daglegu lífi og við dagleg störf.

Guð er þó sá sami í dag og í gær, og verður sá sami til eilífðar, reiðubúinn að uppfylla bænir þeirra sem leita hans í trú og sannleika. Ef vér lesum Nýja Testamentið, sjáum vér, að Jesús Kristur brýnir ekki neitt eins oft fyrir lærisveinum sínum, eins og það, að iðka bænarandann, og vera stöðugir í bæninni.

Vér viljum öll hafa góða heilsu á sál og líkama, og lifa hamingjusömu lífi, og vera lánsöm í öllum vorum fyrirtækjum, Jesús Kristur sjálfur hefir vísað oss veginn þangað, sem vér fáum öðlast alt þetta. Hann segir: Leitið fyrst guðsríkis og hans réttlætis, og þá mun alt annað veitast yður. — Með þessum orðum minnir hann oss á, að með stöðugri bæn komustum vér í svo náið samband við Guð, að vér öðlustum þá hluti sem vér óskum eftir. Þetta eru frelsarans eigin orð, og ef vér ekki trúum því sem hann segir, ættum vér ekki að kenna oss við Krist. Trúin og kraftur orðanna þroskast og styrkist áreiðanlega við stöðugt bænahald líkt og námshæfileikar þroskast við bóklestur og stöðuga þjálfun andans. En hinsvegar minnir Jesús oss ávalt á það, að vér getum ekki búist við bænheyrslu, nema vér trúum því að vér verðum bænheyrð. Enginn efi má komast þar inn. Hann segir: Hvað helst þér biðjið Guð um, þá trúið að þér munið það öðlast, og þá munuð þér fá það. Hann segir líka, þar sem hann er að útskýra kraft trúarinnar: Ef þér hefðuð trú eins og mustards-korn munduð þér geta sagt við þetta tré: Ríf þú þig upp með rótum, og festu aftur rætur í hafinu, þá mundi það

hlýða yður. Ennfremur sagði Jesú við föður slagaveika piltsins, er kom til hans að leita hjálpar fyrir son sinn: Ef þú hefir trú, þá læknast hann. Trúuðum er alt mögulegt. Við lærisveinana sagði hann: Þetta kyn verður með engu útrekið nema með bæn og föstu. Þegar vér lesum Nýja Testamentið dylst oss eigi, að það er trúin og bænin sem eru aðal atriðið í kenningum Jesú, og hann sannaði það með sínum dásamlegu kraftaverkum og lækningum, að hann hafði yfir að ráða andlegum krafti sem aðrir ekki þektu né skildu.

En hvernig getum vér öðlast þann kraft bænarinnar og trúarinnar, sem lyftir oss upp yfir öll takmörk lífsleiðans og andstreymisins, veikindanna og skortsins. Jesús vísar oss veginn með einföldum og auðskildum orðum. Hann ætlast til að vér fullkomnum oss í trúnni, og hann gefur oss fyrirheit: Sannlega segi eg yður að hver sem trúir á mig, mun einnig gera þau verk sem eg geri. Á öðrum stað segir hann: Þeir sem á eftir mér koma munu gera meiri verk en eg geri. Farisearnir spurðu Jesú eitt sinn hvenær guðsríki mundi koma?; Jesús segir: Guðsríki kemur ekki þannig að á því beri, og ekki verður sagt, sjá það er þar og það er hér, því guðsríki er hið innra í yður. En hvernig getum vér þá lokið upp dyrum guðríkis? Jesús segir: Innan að, frá hugskoti mannsins koma illar hugsanir, hór, frillulífi, manndráp, þjófnaður, ágirnd, illmenska, hrekkvísi, óstjórnlegt líferni, öfund, lastmæli, drambsemi, heimska. Allir þessir vondu hlutir koma innanað og saurga manninn. Engin kona eða húsmóðir nær miklu áliti, sem alt veður hjá, í óþrifnaði og óreglu og fáum líður vel á því heimili. En sem betur fer, fækkar þeim heimilum óðum sem illa eru haldin. En hvernig lítur út fyrir dyrum guðsríkis, sem Jesús segir að sé í oss sjálfum. Væri ekki æskilegt að vér skygnustum inn í vort eigið hugskot og sjáum hvert þar er alt sópað og prýtt. Tvær af þessum höfuðsyndum, sem Jesús telur upp, eru mjög alment iðkaðar, og er þó önnur þeirra talin að vera rót alls ills. Það er öfundin eða afbrýðissemin. Alexander Drummond telur hana verstu ófreskju myrkursins. Hin syndin er lastmæli eða ílt umtal. Vér öll stöndum á öndinni er vér lesum í blöðunum um, að banki hafi verið rændur, eða fátækur verzlunarmaður verið neyddur til með ofbeldi, að láta af hendi það litla sem hann hafði getað fengið fyrir vörur seldar yfir daginn. En á sama tíma erum vér máske sjálf í öðrum ræningjaflokki, sem rænir náungann mannorðinu sem meira er þó virði en nokkur þúsund dalir, og gerum það með allra beztu samvizku, eins og mannæturnar sem éta meðbræður sína, með allra beztu samvizku.

Kæru vinir. Ef vér nú finnum eitthvað af þessum vondu hlutum í hugskoti voru, þá umfram alt skulum vér byrja að rýma þeim burtu og það mun oss auðvelt verða ef vér fylgjum dæmi Jesú og rekum hið illa út með bænum og föstu. Ef vér svo fyllum huga vorn og meðvitund með kærleika, trú og bæn og þakklæti, mun viðhorf vort á allri tilverunni fljótlega breytast í þann fögnuð sem

trúin ein getur veitt og þá margfaldast trú vor á Guð almáttugan. Bænrækni vor vex og lofgerð streymir fram í hjörtum vorum eins og lifandi lind. Vér finnum til máttar, sem vér höfum ekki þekt áður, og vér tökum eftir vitrunum Guðs, mitt á meðal hversdagslegra hluta sem vér höfum ekki veitt eftirtekt áður. Öll dagleg hamingja vor og framtíð er í þessu fólgin. Jesús segir: Ef að þér skiljið þetta eruð þér sælir, ef þér breytið eftir því.

Til að útrýma myrkrinu úr herberginu verð eg að kveikja þar ljós. Til þess að útrýma myrkrinu úr mínu eigin lífi verð eg að gera mig móttækilega fyrir guðlegt ljós, og vera mér þess meðvitandi að Guð er mér alstaðar og æfinlega nálægur. Hann leggur mér til alt sem eg þarf. Hann styrkir mig og gerir mig færa til að ráða fram úr mínum vandamálum. Hann sér fyrir þörfum mínum og minna. Við hvílum öll í hans ástarörmum. Hann er með mér í öllu sem eg tek mér fyrir hendur og allri minni vinnu. Hans andi er með mér í öllu mínu lífi. Sú meðvitund innra með oss, að vita sjálfan sig í samræmi við Guð og undir hans handleiðslu, veitir manni óumræðilega blessun, og lyftir manni á hærra og göfugra stig. Maður finnur að maður hefir mátt til að blessa aðra. Ekki þinn eigin ófullkomni vilji og þinn takmarkaði máttur, heldur máttur Guðs í sjálfum þér. Með mínum anda, segir Drottin.

Kæru vinir, einhverjir eru máske hér inni sem hugsa: Já, það er nú hægt að skrifa og tala um þessa hluti, en síður hægt að sanna. En þeim hugsunum vil eg svara þannig: Eg hefi sjálf séð hin dýrlegustu máttarverk bænar og trúar gerast, og er fús að vitna það hvenær sem er. Eg hefi vitað og séð sjúkdóma, sem frægir læknar hafa staðið ráðalausir yfir, og enga hjálp getað veitt, læknast fyrir milligöngu þess sem sagði: Eg er ávalt með yður alt til veraldarinnar enda. Líka hefi eg vitað megnustu drykkjuskapar ástríðu hverfa og verða að engu. Maðurinn sem þannig stóð á fyrir var búinn að drekka sig út úr ágætri atvinnu. Heimilið var orðið bjargarlaust, eldiviðarlaust og alslaust. En þá kom hjálpin mjög sviplega. Kona hans og fleiri vinir, voru stöðugir í bæninni. Biðjið þá mun yður gefið verða, knýið á og þá mun fyrir yður upplokið verða. Mig langar til í þessu sambandi, að segja sögu af stúlku sem eg þekki vel. Hún hefir um nokkurra ára skeið verið búsett í Winnipeg. Hún er ekki af íslenkum ættum, en það breytir ekki gildi sögunnar. Frá því að hún var 7 ára og byrjuð að ganga á skóla, var hún mjög veikluð á heilsu. Þegar hún var 13 ára var hún orðin svo berklaveik, að læknarnir réðu til að taka fæturna af henni í þeirri von að hægt væri að verja aðra parta líkamans gegn veikinni. Þeir höfðu þegar gert nokkra uppskurði á fótunum á henni, tekið parta af beinum í burtu og skafið leggina, skorið í sundur sin á öðrum fætinum. Fæturnir voru bundnir upp með spelkum, og hún drógst áfram á hækjum. Annar fóturinn var ofurlítið betri en hinn. Sá fóturinn sem sinin var skorin í sundur á, drógst án þess að hún hefði

nokkurt vald yfir honum. Hún stóð ávalt á móti því að fæturnir væru teknir af sér, og hafði ávalt von um að sér mundi batna. Foreldrar hennar og aðrir ættingjar, voru gott og kristið fólk, sem kallað er, og sóttu kirkju reglulega eins og gerist og gengur, en trúin hafði samt sem áður ekki náð þeim tökum á sálarlífi þeirra, að það tryði að bænin gæti hjálpað. Hafa máske verið búin — upp á sína vísu — að biðja fyrir stúlkunni sinni. En nú skeður það sem sumum finst ef til vill ótrúlegt — en er þó óhrekjanlegur sannleikur. Stúlkan sjálf er sýnilegur vottur, að hér gerðist kraftaverk, fyrir trú og bæn.

Hún var send að heiman til að mentast. Hafði ekki í langan tíma verið fær um að ganga á vanalega alþýðuskóla. Var nú farin að hugsa fyrir sig sjálf. Hún hafði lesið bók sem einhver hafði lánað henni, sem hét: "Lessons in Truth", eftir Emily Cady, sem hafði djúp áhrif á hennar sálarlíf. Hún hafði ásett sér að ekkert skyldi hamla sér frá að komast á fund höfundar þessarar bókar.

Þegar foreldrar hennar komust að þessari ákvörðun hennar, reyndu þau alt hvað þau gátu að koma í veg fyrir hana, en þegar þau ekki gátu talið hana af því, héldu þau að blessuð litla dóttir þeirra væri nú — af langvarandi veikinda stríði — orðin sturluð. En hún fylgdi þeirri ákvörðun sem hún hafði tekið, og með hjálp Guðs og góðra manna komst hún á fund þeirra sem iðkuðu daglegt bænalíf. Og í stuttu máli sagt, fékk hún bót meina sinna. Eftir sex mánuði var hún farin að fara á skautum. Nú í dag er hún eins íturvaxin eins og nokkur getur verið. Fæturnir sem voru sundurskornir og skafnir eru nú ímynd fullkomleikans. Það sem burtu var tekið óx aftur og bakið, sem bogið var orðið, réttist.

Guð hjálpar þér í því smáa ekki síður. Hann hjálpar þér við húsverkin og hreingerninguna haust og vor. Hann gerir það áreiðanlega og það verður þér mikið gleðiefni hvað alt gengur vel. Gömlu hlutirnir verða hreinir og fágaðir eins og þeir væru nýir og það opnast fyrir þér vegir til að endurnýja það sem þú þarft. Allir hlutir í þínu daglega lífi standa í sambandi við helg öfl þíns innra manns, þroska og þjónustu. Vér gleymum of oft þeim sannindum, að Guð er hjálp vor í hverri þörf, uppspretta vitsmuna vorra, vort leiðarljós og sá máttur sem ekki á sér takmörk.

Guð er líka uppspretta gleðinnar og hann gerir oss mögulegt að hafa gleði af vinnunni. Það er altaf eitthvað að koma fyrir sem maður getur haft gaman af, og þegar vér vinnum með Guði, getum vér notið ánægjunnar. Ýmsir hlutir sem áður hefðu kannske gert mann ergilegan, sýnast nú svo skrítnir að þeir vekja hlátur og hláturinn léttir áreiðanlega marga þunga byrði.

Þigðu Guðs hjálp við hreingerningarnar, eða við flutninginn, eða við sáninguna, eða við skepnuhirðinguna. Með leiðsögn Heilags

anda mun Guð gera sjálfan þig styrkan, og umhverfi þitt og það sem þú hefir með höndum eins og það á að vera, umbæturnar koma fyrirhafnarlítið og í fullu samræmi hver við aðra. Ásigkomulag, sem máske sýndist erfitt og óaðgengilegt, og jafnvel óbærilegt verður eins og af sjálfu sér svo geðfelt, að þig furðar að þú skyldir nokkurntíma láta það ónáða huga þinn. Gefðu Guði tækifæri til að hjálpa þér. Segðu við hann: "Faðir, nú þarf eg að hreinsa alt heimilið. Veittu mér styrk og viljaþrek. Hjálpaðu mér til að gera heimilið mitt fallegt og hreint og góðan dvalarstað.

Ef þú hefir einhverjar strangar og nákvæmar hugmyndir um það hvernig beri að gera vissa hluti, eða þú hefir eitthvert það vinnulag sem rekur þig áfram með hörku, svo verkið verður þér alt erfitt og ógeðfelt, þá berðu þetta fram fyrir Guð án tafar. Hans vegir eru vegir friðar og gleði. Heimili þitt á að vera þér sælustaður, ekki harðstjóri sem rekur þig áfram með hörku og óbilgirni. Heimili þitt á að vera staður friðar og gleði og fegurðar og ánægju. Og Guð vill hjálpa þér til að gera heimili þitt þannig.

Kona nokkur sem altaf hafði verið kafin áhyggjum og önnum í mörg ár vegna húsverkanna og aldrei gat notið hvíldar nema allir hlutir á heimilinu væru í þeirri röð og reglu sem hún hélt að þeir ættu að vera í, segir frá því hvernig grein í einu kristilegu vikublaði breytti lífi hennar. Í því blaði voru ráðleggingar sem mintu mann á það, að Guð væri kærleikur og hjálp manns í öllu starfi, á öllum tímum og það, að maður ætti að hafa gleðibros á andlitinu við vinnu sína. Það fyrsta sem hún gerði var að næla fyrsta ráðið sem þar var gefið í gluggatjaldið í herberginu sínu. Hin lét hún annarsstaðar, á eldhúsvegginn, hjá lampanum sem hún las við og jafnvel út í skúr, þar sem hún geymdi gólfþvotta áhöldin. Alt þetta hjálpaði henni til að halda gleði sinni og minnast náðar og nálægðar Guðs.

Konan sem unnið hafði fjórtán til átján klukkustundir á dag við sín heimilisverk og haft þreytuverk í handleggjunum og bakinu og dapran huga, hafði lært á stuttum tíma að gera sín húsverk á fáum klukkustundum á dag, og vinna þau vel og vinna þau með gleði. Hún segir: "Húsið mitt var altaf hreint og alt var þar í röð og reglu, en vinnan var alt of mikil fyrir mig. Eg held húsinu enn í góðu lagi, en nú vinn eg mér það hægt. Guð hefir gefið mér samræmi, kærleika og frelsi fyrir sjálfa mig, vinnu mína, heimili mitt og fjölskyldu. Þegar eg varð móttækileg fyrir náð Guðs, veitti hann mér styrk til að koma öllu þessu til leiðar. Eg veit naumast hvernig þetta varð, en eg fann einn daginn að eg var orðin laus við þennan þrældóms vana, sem eg var sjálf háð og heimtaði af öðrum. Nú er verk mitt létt og lífið þægilegt."

Guð hjálpaði þessari konu og gaf henni hreint hugarfar og hjartalag og vinnuþrek. Alveg sömu hjálp veitir hann þér ef þú vilt þiggja hana. Þegar vinnan legst á mann eins og farg, þá kemur

það til af slæmum vana og sá slæmi vani borgar sig illa. Það er hægt að gera alt sem gera þarf með gleði og ánægju. Þú finnur það áreiðanlega ef þú tekur á þig það ok sem Kristur talar um, og þiggur hjálp Guðs til þess sem þú þarft að gera. Guðsorð þýðir bókstaflega það sem það segir: "Hræðist ekki né skelfist, því eg er með yður, o. s. frv." Kastaðu ekki frá þér hjálp Guðs, sem hann hefir heitið þér. Geymdu það ekki þangað til einhverntíma að í nauðirnar rekur. Þigðu hjálpina strax í dag og hún bregst þér ekki hvað sem þú tekur þér fyrir hendur. Það ljós sem þú færð með þessu móti inn í sál þína, skín bjart og fegrar og prýðir þjónustu þína og alt þitt umhverfi. Það verður líka nágrönnum þínum og meðbræðrum til gleði og blessunar.

* * *

Nóttin niðadimm — þungur ómur í öldum — skipið styrkt og tigulegt heldur leiðar sinnar. Ljós í fjarska — annað einmana skip andspænis. örlitla stund slá þau bjarma á hvers annars leið — skiftast á kveðjum — hverfa út í dimmuna og þögnina.

* * *

**Vér þökkum** fyrir æfintýrí lífsins, fyrir að lífið alt er eitt óendanlegt æfintýri. — Þökkum, fyrir að sjá ekki hvað tekur við þar sem brautin beygist. — Þökkum, fyrir vissuna um hver bíður til að leiða oss hinum megin við bugðuna.

* * *

# Tvær merkis konur látnar.

Eftir G. J. Oleson.

---

Með gleði verð eg við þeim tilmælum að skrifa fyrir "Árdísi" nokkur minningarorð um þær Sigríði Helgason og Guðbjörgu Goodman, sem svo merkilegan og göfugann þátt eiga í sögu Argylebygðar um langt tímabil. Þær hafa nú verið kallaðar af verksviði hins jarðneska lífs, til æðri köllunar á blómsturlöndum eilífðarinnar á bak við dauðans ský. Þær verðskulda hver í sínu lagi veglegan minnisvarða en hann get eg ekki reist, og það er með söknuði að eg hlýt að játa að eg get ekki leyst verk þetta af hendi eins vel og hugurinn hefði kosið, eða minning þeirra á skilið. Lífsstarf þeirra var svo merkilegt og fagurt—bæði innan vébanda þeirra prívat verkahrings og heimilis, sem og í þátttöku þeirra í félagsstarfsemi bygðarinnar, að frá því getur ekki orðið greint rækilega í þessum fáu minningarorðum.

* * *

## SIGRÍÐUR HELGASON

1857—1937.

Hún var fædd 11 nóv. 1857 á Ingjaldsstöðum í Bárðardal. Voru foreldrar hennar Sigurður Eiríksson og Guðrún Erlendsdóttir, mæt hjón, er lengi bjuggu á Ingjaldsstöðum. Var Sigurður sagður bráðgreindur maður og bróðir önnu móður þeirra dr. Finns Jónssonar og Klemenz sýslumanns, en Guðrún Erlendsdóttir móðir Sigurðar var systurdóttir Jóns Sigurðssonar frá Gautlöndum, er því vel í ættina spunnið frá báðum hliðum. Sigríður giftist 2. júlí 1885 á Lundabrekku í Bárðardal Jónasi Helgasyni ættuðum frá Mývatni, en fæddur var hann á Arndísarstöðum í Bárðardal 1859. Á Íslandi voru þau í hjónabandi 3 ár. Síðast á Vopnafirði og fluttust þaðan til Vesturheims 1888 og rakleiðis til Argyle-bygðar. Voru fram um aldamót í Austurbygðinni, en síðan hefir heimili þeirra verið í Vesturbygðinni rúma hálfa mílu norðan við kirkju Frelsissafnaðar og hvað snertir húsakynni og gestrisni hefir það verið eitt mesta rausnarheimili bygðarinnar, og í fremstu röð íslenzkra sveitaheimila hvar sem væri leitað.

Um Sigríði má segja sömu söguna og Íslendinga flesta er vestur komu, og vel hefir farnast. Fátækt framan af, barátta, dugnað-

ur og sigur að lokum. Þau hjón munu hafa komið hér með tvær hendur tómar, en trúin og vonin og dugnaðurinn bjargaði þeim upp á hinn örðuga hjalla sjálfstæðis og farsældar.

Systkini Sigríðar sálugu sem á lífi eru skulu hér nefnd: Kristín til heimilis á Sandhaugum í Bárðardal; Anna ekkja býr á Fjöllum í Kelduhverfi; Hólmfríður býr á Fljótsbakka í Bárðardal; Björg gift



*Sigríður Helgason*

svenskum manni, býr í Kaupmannahöfn; María Aðalbjörg ekkja Hjartar Sigurðssonar fyrrum bónda í Argylebygð, í Portland, Oregon; Eiríkur bóndi á Sandhaugum í Bárðardal og Björn Dalmann í Riverton, Man.

Börn hennar eru: Helgi, Darcy, Sask.; Erlendur, Brunkild, Man.; Guðlaug Jóhannesson, ekkja í Winnipeg; Ingólfur, bóndi í Argyle; Friðrik, hveitikaupmaður skamt frá Winnipeg og Kristján nú búandi á föðurleifðinni. Fósturdóttir átti hún eina Kristbjörgu að nafni, er hún gift Helga Finnsson nálægt Milton, N. Dak. Þrjú börn misti hún á æsku skeiði.

Sigríður var alin upp í Bárðardalnum, skamt frá þar sem Goðafoss fellur af björgum fram og þrumar ár og síð. Er röddin sú hverjum manni hvöt til lífs og dáða sem andlegt þor og þroska á í brjósti. Óefað hefir tign íslenzkrar náttúru haft mikil áhrif á Sigríði í æsku,

og römm var sú taug er batt hana við feðra frón, og ástfóstur festi hún við landið ísa og báls og alt það gott sem er til í íslenzkri menningu, og ísland heimsótti hún ásamt Kristjáni yngsta syni sínum 1914.

Sigríður Helgason gaf sitt bezta til ísl. félags og kirkjumála bygðarinnar, var meðlimur Frelsissafnaðar og beitti þar óskiftum kröftum, um langt skeið kennari í sunnudagaskólanum og með lifandi áhuga starfaði hún í kvenfélögum bygðarinnar, fyrst í Austurbygðinni og síðar í Kvenfélagi Frelsissafnaðar og heiðursmeðlimur í því var hún gerð fyrir rúmu ári síðan. Mest og bezt var hún sem húsmóðir og móðir. Það bera allir sem bezt þektu til. Göfuglynd og góð við alla sem bágt áttu, einlæg og sönn í trú sinni, bjartsýn og örugg í lífinu, og með sigurbros í dauðanum. Hún var í hærra lagi, þrekvaxin og tíguleg á velli, fríð sýnum með skært og tindrandi augnaráð. Hún var greind og bókhneigð og mat mikils andlega menningu og þroska, og sór hún sig í ætt við þær konur með íslenzkri þjóð, sem bezt hafa borið merki hins norræna stofns.

Á 50 ára giftingarafmæli þeirra hjóna var þeim haldið veglegt samsæti í Argyle Hall, sem öll bygðin tók þátt í. Þar voru allir með heilum hug, og þar voru mörg orð töluð sem báru vott um vinsældir þeirra, mannskap og drenglyndi.

Sigríður dó 28. jan. s. l. hjá dóttur sinni í Winnipeg eftir stutta legu, jarðsett var hún í bygðinni sinni, sem henni var svo kær.

* * *

## GUÐBJöRG GOODMAN.

1883—1935.

Sú hugsjón að lyfta því lága
Og líkna því fátæka og smáa
Var auður sem eðli þitt bar;
Því ástin þín viðkvæmnis víða
Með vorbjörtu geislana fríða
Af Guðs anda gefin þér var.

**Guðbjörg Elíasson**

Hún var fædd í Winnipeg 4. okt. 1883. Foreldrar hennar voru: Jón Guðmundsson (Goodman) Gíslasonar og Sigríður Jónsdóttir, er lengi bjuggu á Hjalthúsum í Aðaldal í Þingeyjarsýslu, og kona hans Guðrún Sigríður Eiríksdóttir Pálssonar og Helgu Arngrímsdóttur frá Hróarstungu í N.-Múlasýslu. Móðirin dáin 12. júní 1934 Faðirinn enn á lífi, nú rúmlega 88 ára gamall. Þau voru dugnaðar og sæmdahjón og vel metin í bygðinni.

Til Argyle kom Guðbjörg með foreldrum sínum 1885. Bygðu þau mót suðri á hæðinni alkunnu í norðurhluta Argyle-bygðar, sér þar suður yfir vatnið í dalverpunni fyrir sunnan (og sem kent hefir verið við hinn aldna landnámsmann) og víða um bygðina. Er það hinn fegursti staður. Á þessu heimili, á þessum frjósama gróðrarreit ól Guðbjörg allan sinn aldur. Frá þessari fögru sjónarhæð sá hún yfir hina fögru og friðsælu Argylebygð, sem er allra bygða



*Guðbjörg Goodman.*

fegurst og þaðan sá hún yfir lífið, og hún sá betur en margir aðrir fegurðina í lífinu og kunni að meta hana því hún var ljóselsk og bjartsýn. En af þessari sömu sjónarhæð sá hún líka bölið sem svo víða særir mannleg hjörtu, og miklum tíma fórnaði hún til að mýkja sár mannanna, hugga, gleðja og líkna.

Guðbjörg giftist aldrei, en starfaði með foreldrum sínum og þjónaði heimilinu með þeim dugnaði og skyldurækni sem fátíð er. Hún var praktisk, félagslynd og hugsjónarík og í þessu öllu var svo mikið samræmi, að maður gat dáðst að. Eg hefi lesið sögu Ólafíu Jóhannsdóttur og margt um hennar lífsstarf og hugfanginn dáðst að lífsferli hennar. Mér hefir oft fundist andlegur skyldleiki með henni og Guðbjörgu Goodman.

Hún var með lífi og sál í kirkju og félagsstarfsemi Vesturbygðarinnar, og áhrifa hennar gætti um alla bygð og bæi Íslendinga hér,

og út fyrir þau takmörk. Hún var sunnudagsskólakennari um langt skeið, og veitti fulltingi öllu sann-kristilegu starfi. Hún stofnaði Dorcas félagið í sínum söfnuði, og átti þátt í stofnun slíks félagsskapar í Austurbygðinni. Unnu þessi félög lofsvert verk á stríðsárunum. Var Guðbjörg forseti í sínu félagi þar til það sameinaðist kvenfélaginu og stóð þar ætíð í broddi fylkingar, hrein og tíguleg eins og mærin frá Orleans. Í kvenfélaginu var hún með lífi og sál og forseti þess um tíma, og lengst í djákna eða hjálparnefnd þess. Verki því er hún vann á stríðsárunum með bréfa og böggla sendingum til íslenzkra hermanna verður ekki lýst, hún vann með ósérplægni og dugnaði sem nær var einstæður. Þá átti hún mikinn þátt í forystunni fyrir hinum árlegu Ninette-ferðum bygðarfólks, til skemtunar og glaðnings sjúklingunum á heilsuhælinu þar, og jólaglaðninga sendi hún þangað og til Betel í ríkulegri mæli en almenningur vissi. Þá er ótalinn þáttur sá er hún átti í því að safna heimildum fyrir "Sögu íslenzkra hermanna". Gekk hún fram í því með skörungskap og vanvirkni, hefi eg enn í höndum bréf frá Guðrúnu Búason þar sem hún dáist að vandvirkni á þeim heimildum sem héðan voru sendar. "Eg hefi hvergi fengið send mér nokkuð svipað þessum formum—að tölunni til—og hvergi nokkursstaðar eins vel úr garði gerð", segir hún, og Guðbjörg átti í því eins og svo mörgu öðru stærstan þátt.

Auk þess sem hér hefir lauslega verið drepið á, var hún sístarfandi að svo ótal mörgu smáu og stóru í mannfélaginu í kringum sig, bæði í félags og einstaklingsmálum, hún átti svo gott hjarta og fórnfúsa lund að hún gat ekki setið á sér nema að hjálpa hvar og hvenær sem hún sá þörf til þess. Eg var henni kunnugur að meira eða minna leyti frá því hún var á ellefta ári, og á síðari árum henni allmjög handgenginn í ýmsum störfum, en þess betur sem eg þekti hana þess betur kunni eg að meta hennar ágætu mannkosti og hennar farsælu hæfileika sem hún beitti ætíð til góðs.

Í trúmálum var Guðbjörg hleypidómalaus, hún var sannkristin, hún sýndi trú sína í verkunum, og átti því bágt með að þola þann kristindóm sem var kjarnalaus og innantómur, og eitt verður með sanni sagt um hana, hún var ekki metorðagjörn, fyrir löngu gekk eg úr skugga um það, að hún vann vegna hugsjónanna og málefnanna, en ekki til að afla sjálfri sér orðstýrs. Hún trúði á manndóm og atorku og vann meðan dagur entist. Hún stundaði fuglarækt í stórum stíl, garðrækt og blómarækt, — blómagarðurinn hennar bar af öðrum blómagörðum og hann og alt umhverfið bar vott um mikla vinnu og fegurðarsmekk.

Hún átti góðar og duglegar félagssystur sem hverri bygð væri sómi að, og þær munu óefað halda uppi merkinu, og minningin um hana mun knýja þær fram, en þær og bygðin mistu mikið þegar þær mistu Guðbjörgu.

Er blóm sumarsins voru að deyja og laufin að falla af trjánum og grasið að visna fyrir regindóm náttúrulögmálsins flaug arnfleygur andi hennar til sóllanda fegurri, laus við öll jarðnesk bönd, það var 12. október 1935. Um alllangt skeið gekk hún þess ekki dulin að sigð dauðans hékk yfir lífi hennar og heilsu, en hún gekk á móti dauðanum sem hetja og tók því sem verða vildi með kristilegu brosi.

Eg sá hana í síðasta sinni á spítalanum í Winnipeg skömmu fyrir andlátið, hún var glöð og hress, sama bjartsýnin og róin hvíldi yfir henni þá, sem hafði einkent alt hennar líf.

"Ef hyggjum vér happs að njóta,
Er heyrn oss lukt eður sjón,
Hver unaðs og yndis nóta
Hér endar á deyjandi tón."

Svo kvað séra Matthías.

* * *

Hvað er tíminn? Ekki skugginn í sólskífunni, eða slög klukkunnar eða sandrenslið í tímaglasinu. Ekki heldur dagur eða nótt, sumar eða vetur, mánuðir, ár eða aldir. Þetta eru aðeins hin ytri tákn hans eða mælikvarði. Tíminn—það er líf sálarinnar.

Longfellow

* * *

# Nýárs hugleiðingar.

Eftir Hólmfríði Daníelsson.

**Flutt á ársfundi Kvenfélags Árdals safnaðar.**

---

Alt fólk af öllum stéttum, ríkt fólk, fátækt fólk, ungt, gamalt og miðaldra, sækist sjálfrátt eða ósjálfrátt eftir einu markmiði, að fá að njóta lífsins — hamingju lífsins. Einstaka kærleiksrík manneskja, getur meira að segja ekki sætt sig við minna en þá æðstu hugsjón að allir fái notið lífsgleði sem unt er. En er vér lítum í kring um oss sjáum vér að sú hugsjón á langt í land. Fólk yfirleitt virðist alls ekki létt í lund og **lífsglatt**. Eru oft margvíslegar og óviðráðanlegar ástæður sem valda því, ef til vill langvarandi sjúkdómur, eða ömurleg fátækt að berjast við; það tekur meira en meðal fólk að yfirstíga þesskonar þung kjör. En stundum er það einmitt fólkið sem ber þyngstu byrðarnar sem er veitt eitthvert yfirnáttúrlegt þrek til að hefja sig upp yfir kringumstæðurnar, en aðrir með léttari lífskjör eru niðurdregnir, umsnúnir, og bitrir í garð forsjónarinnar; alt er kent forlögunum!

Hvað veldur þessu?

Allur fjöldi fólks gerir sér ekki grein fyrir því, að eitt sem sérstaklega veldur óhamingju og auðnuleysi **er rangt viðhorf á lífinu**, og með því að nota skynsemina er hægt að gera stórkostlegar umbætur hvað það snertir, svo að nægjusemi megi finnast í daglegu lífi.

Oft er það foreldrum og kennurum að kenna að viðhorfið er öfugt í æsku; dálætis börn halda að lífið eigi að rétta alt upp í hendurar á þeim. Draumlyndur unglingur, með fínar tilfinningar, reynir stöðugt að hlaupa burt frá raunveruleikanum, og stöðvast þar af leiðandi aldrei við neitt, tapar loksins sjálfum sér í hringiðu lífsins. Barn sem kennarar og foreldrar stöðugt niðra fyrir vankunnáttu og seinlæti tapar stundum öllu sjálfstrausti, og ef það er mjög tilfinninganæmt verður það þunglynt og ef til vill sinnisveikt.

En líf allra þessara barna hefði getað orðið kraftur til góðs ef þeim hefði snemma verið kent að koma jafnvægi á sálarástand sitt; kent að stjórna ástríðunum og beita þeim í rétta átt; kent að vega menn og málefni frá sjónarmiði skynseminnar, en ekki tilfinninganna einungis, og ótamdra geðshræringa.

En hvað sem nú veldur því að unglingurinn vex upp með óheppilegt útsýni, þá er það skylda hans að gera tilraun til að breyta því þegar hann er komin til vits og ára, **ef hann finnur þörfina til þess.** Það er eins heimskulegt að halda sér við það eins og vera í of þröngum skóm þegar hægt er að veita sér aðra.

Hvað er þá hægt að gera til þess að koma á betra jafnvægi milli tilverunnar og sjálfs sín? Í grunvellinum sem vér byggjum undir hamingjuna þarf að vera **skynsamlegt sjálfsálit**, (tilfinning fyrir því að vér séum að einhverju leyti þarfir meðlimir í mannfélaginu). Fæst það helzt með því að reyna stöðugt að efla og fullkomna það bezta í manns eigin fari, hvert sem það er verklegt eða andlegt. Sumt dugnaðarfólk finnur nægjusemi og lífsnautn í hinum ýmsu daglegu störfum, og beitir öllum kröftum sínum til að inna þau sem bezt af hendi, finnur á sér hinar ýmsu þarfir heimilisins og er fljótt að fullnægja þeim. Aðrir leggja litla áherzlu á líkamleg störf sín, þó þau séu ef til vill leyst vel af hendi fyrir því, en finna nautn í því að efla sérstakar gáfur sínar og nota hagleik og tækni sína út á við svo sem í fimleikum, sönglist, leiklist og svo mörgu fleira. Enn aðrir hafa sérstakt upplag til að fegra og prýða alla hluti, halda heimilinu aðlaðandi og sjálfum sér snyrtilegum. Oftast er svoleiðis fólk fult af góðum hugmyndum sem geta komið að liði í félagslífinu, og kosta lítið nema handlægni og áhuga.

Alt meðal fólk getur þessvegna elft hjá sér einhverja sérstaka hæfileika, sem það finnur að er ótvírætt sjálfum sér og öðrum til gagns. Þegar einstaklingurinn hefir náð þessu stigi af sjálfstrausti mínkar hjá honum tilhneigingin til að lítilsvirða afrek annara. Er þá næsta sporið stigið, að meta og virða það bezta í fari annara. Þá er búið að ná því heppilega viðhorfi að meta og reyna að efla **allar framfarir** hjá sjálfum sér — **og öðrum.** Af þessu leiðir samúð og vinarþel milli fólks svo samvinnan verður létt, og árangurinn margfalt meiri. Salomon, hinn vitri, sagði eitthvað á þessa leið: "Sá sem vill eignast vini verður **að vera vinur"**, og enginn hefir enn fundið betra spakmæli því viðvíkjandi.

Seintekið og fálátt fólk segir máske við sjálft sig: "Eg er nú ekki að trana mér fram og þykjast vera full af áhuga fyrir fólki sem eg þekki lítið og er ef til vill einskis virði. Sumir eru svo stranglega ráðvandir og umvöndunarsamir við sjálfa sig að þeim finst það ganga kaupsölu næst að vera með vinahót við fólk yfirleitt, **til þess að ná hylli þess.** En auðvitað er tilgangur einlægs vinarþels langt frá því að vera sá, (þó er ekki hægt að neita því að kænir menn sem vilja nota starfskrafta fólks í þarfir sjálfs sín hafa einmitt falskt vinarviðmót í frammi til þess að ná hylli fjöldans, og ber að vara sig á þeim!). En þægilegt og alúðlegt viðmót við samferðafólk vort getur oft og tíðum, þó vér ekki vitum af því, blíðkað og glatt sorgbitinn, önugan eða áhyggjufullan huga, og gefið nýjan þrótt þeim sem eru að gugna í lífsbaráttunni.

En okkur finst lífið svo erfitt af því **aðrir** eru svo leiðinlegir, börnin, eiginmaðurinn, konan, móðirin, eru ekki alls kostar eftir okkar skapi í þetta eða hitt skiftið. Samferðafólkið er svo þreytandi, auðvirðilegt, ótugtarlegt, þessvegna gengur alt svona hörmulega; hugur vor fyllist af sjálfsmeðaumkun! Vér höfum ekki enn lært annað skilyrðið fyrir lífsgleði, **það er umburðarlyndi.** Verðum við því að halda áfram sjálfsmentuninni, og kappkosta að skilja ástæður fólks, líkamlegar og andlegar, og afstöðu þess. Þá finnum vér að allir þessir gallar eiga í raun og veru heima hjá oss öllum. Mismunurinn er aðeins sá að sumir hafa einhverra hluta vegna verið svo hepnir að ná meiru andlegu jafnvægi en aðrir og ber þeim að rétta hjálparhönd en ekki kasta steinum.

Eftir því sem vér komustum lengra á leið þroskunar og sjálfsþekkingar finnum vér að **sjálfstraust** og **umburðarlyndi,** sem minst hefir verið á, eru aðeins **undirstaðan** undir gæfuna. Aðal skilyrðið er að geta gleymt sjálfum sér, og haft áhuga af lífi og sál fyrir því sem er að gerast í kringum mann. Það er áhuginn sem heldur manni frá leiðindum og sjálfsmeðaumkun. Áhugasöm starfsemi í þarfir góðra málefna skerpir og eflir allar gáfur, og gerir lífið auðugra og ánægjulegra. Hugurinn má ekki vera of bundin við mann sjálfan, þá sýnist manni alt sem viðkemur oss sjálfum, svo stórkostlegt og yfirgnæfanlegt, sérstaklega ef það er eitthvert smáræði sem hefir verið gert á hluta vorn. En þegar sjóndeildarhringurinn stækkar lærir maður að skoða sjálfan sig sem part af einni stórri heild. Það er dálítill vandi að geta staðið utan við hópinn og horft á sjálfan sig eins og aðrir sjá mann.

Það eru oft gerðar nýárs-ákvarðanir. Getur oss komið í hug nokkur betri ákvörðun en sú, að byrja nú þegar að umskapa og bæta vort eigið viðhorf á lífinu, svo alt vort starf megi leiða til meiri lífsgleði og blessunar fyrir alla?

* * *

Dáðst var að því við Emerson hve marga vini hann ætti á æskustöðvum sínum er hann kom þangað eftir margra ára fjarveru. "Það er alt misskilningur", mælti hann, "eftir öll þessi veizluhöld skil eg það að hér á eg aðeins tvo vini sem sakna mín — handtak þeirra var þögult, sársauki var í svipnum er þeir gengu hljóðir í burtu.

# Bindindi.

eftir

**Lilju Guttormsson.**

**Flutt á þingi Bandalags Lúterskra Kvenna — 1937.**

---

Tilgangurinn með þessu erindi er að útskýra áhrif vínandans (alcohol) á einstaklingana og á þjóðfélagið, að nokkru leyti eins og þau eiga að vera útskýrð á barnaskólunum hér í Manitoba, samkvæmt tilskipun mentamáladeildarinnar, og að sýna fram á hvað bindindi sé nauðsynlegt.

Áður en eg fer nokkuð út í þetta mál, vil eg útskýra þýðinguna á orðinu bindindi, eða réttara sagt, enska orðinu 'temperance". Þetta orð þýðir upprunalega, hófsamleg nautn allra góðra hluta. Nú á dögum er það vanalega notað í sambandi við neyzlu áfengra drykkja. Í mörg ár var það brúkað til að merkja algert bindindi í þessum efnum, en nýlega hefir því verið veitt aftur hin upprunalega meining þess, og er þess vegna notað af andstæðingum vínbannsins til þess að merkja skynsamlega og hóflega nautn áfengis. Þeir halda því fram að það geri ekkert ilt að drekka í hófi.

En, það er spurning í huga margs hugsandi fólks, hvort nokkuð sem er í rauninni ilt ætti að vera gert í hófi. Það líður varla sá dagur að ekki eigi sér stað glæpur eða slys af völdum manneskju undir áhrifum víns. Ekki alls fyrir löngu skaut kona meðlim fjölskyldu sinnar meðan hún var ölvuð. Ef hann deyr getur ekkert afmáð sorg hennar og iðrun. Í hve mörgum bílslysum er ekki sú afsökun gerð að bílstjórinn hafi verið lítið eitt ölvaður? En, getur nokkurntíma verið borin fram gild afsökun fyrir því, að deyða eða fatla saklausan meðlim mannfélagsins? Þessvegna, fyrir þá sem vilja skilja, ætti aldrei að eiga sér stað hófsamleg nautn áfengis. Orðið bindindi ætti því að vera notað til að merkja algera afneitun áfengra drykkja, því það þýðir skynsemi og sjálfstjórn í mannlegum athöfnum, en að deyfa hugsunina og svæfa samvizkuna er ekki skynsemi.

Já, það er einmitt það sem áfengið gerir: Það deyfir hugsunina og svæfir samvizkuna, það er að segja, vínandinn (alcohol) gerir það, vínandinn sem er í öllum áfengum drykkjum. En hann gerir ekki einungis það, heldur smá-eyðileggur hann heilsuna og styttir lífið sjálft. Í stuttu máli, þá hefir vínandinn eyðileggjandi

áhrif á andlegt, siðferðislegt og líkamlegt ástand mannsins, sem er æðsta sköpunarverk Guðs á jörðunni.

Hvers vegna getur vínandinn haft áhrif á manninn andlega og siðferðislega? Vegna þess að heilinn, sem stjórnar öllum okkar gerðum, sjálfráðum og ósjálfráðum, er viðkvæmastur af öllum líffærunum fyrir áhrifum vínandans. Til þess að skilja hvernig þetta er lagað, verðum við að athuga þroskun manns-heilans.

Þroskun mannsins samsvarar þroskun náttúrunnar, nema hvað hún er miklu fullkomnari í manninum. Lægsta stig í þroskun náttúrunnar er steinaríkið. Steinninn hefir þyngd, lit, lögun og hann dettur; eins ungbarnið. Næsta stig í þessari þroskun er jurtaríkið. tökum til dæmis tréð. Það hefir vökvarás (sap movement), sem samsvarar blóðrás; það hefir andardrátt og meltingu (digestion), sem eiga sér stað í laufunum. Það hefir maðurinn líka. Þriðja stigið, sem er ennþá fullkomnara en jurtaríkið er dýraríkið. Dýrið getur hreyft sig, fundið til og munað, að einhverju leyti, það sem það lærir. Eins getur maðurinn. En hann hefir fullkomnari þroskun en steinaríkið, jurtaríkið og dýraríkið öll samanlögð, því seinasta skrefið í þroskun mannsheilans krýnir hann með góðri samvizku, föðurlandsást, skynsemi, skilningi og hugsjónum. Í fáum orðum, þá hefir Guð gefið manninum alt.

Mannsheilinn, eins og náttúruríkið, byggist frá undirstöðunni upp. Í nýfæddu barninu vinnur neðsti partur heilans, því það er sá partur sem stjórnar hjartanu, lungunum og meltingarfærunum. Eftir ár eða svo, er næsti partur heilans, sem vald hefir yfir vöðvum, sjón, heyrn, smekk, lyktnæmi og tilfinning, að þroskast. Um fjögra ára aldur eru atburðir varanlega skrásettir á minnið, sem er ennþá ofar í heilanum. Hingað til hefir dýra-heilinn (the animal brain) verið að þroskast, og eru því börn á þessum aldri oft kölluð óvitar. Um tólf ára aldurs-skeið byrja efstu frumur heilans (brain cells) að starfa: samvizka og skilningur vakna og halda áfram að þróast þangað til maðurinn er orðinn tuttugu og eins árs að aldri. Þá er heilinn svo vel þroskaður að foreldrar þurfa ekki lengur að bera ábyrgð á gerðum sona þeirra og dætra, sem þá eru orðin fullgildir borgarar með atkvæðisrétt, og sem þá eru gædd sjálfsvirðing og hugsjóna auðlegð.

Nú skulum við íhuga hvaða áhrif vínandinn hefir á þessa mismunandi parta heilans. Frumur heilans eru lang fíngerðustu frumur líkamans, og eru þær því þær fyrstu til að verða fyrir skemdum og að sljófgast af brúkun deyfandi efna eins og vínanda. En efstu frumur heilans, sem gera manninn æðri en alt annað á jörðunni, eru þær fyrstu til að sljófgast og sofna af slíkum áhrifum, af því að þær eru veikbygðustu frumurnar. Þannig er það að heilinn byggist frá undirstöðunni upp, en vínandinn deyfir hann frá efsta partinum niður. Þess vegna er það að fyrsti drykkurinn af áfengi sljófgar

efstu frumurnar sem stjórna skynseminni og samvizkunni. Ef nógu mikið er drukkið starfar einungis sá parturinn sem samsvarar heila dýrsins. Allar fínni tilfinningarnar eru svæfðar. Meira áfengi orsakar gleymsku því þá dofna frumurnar sem vald hafa yfir minninu. Ennþá meira áfengi sljófgar svo þann part heilans sem stjórnar hreyfingu og tilfinningu, að menn slangra til af því að dofnar frumurnar geta ekki stjórnað fótleggjunum, og þeir sjá hlutina tvöfalda vegna þess að frumurnar geta ekki stjórnað sjóntaugunum. Ennfremur geta menn í þessu ástandi lagst í snjóinn þar sem þeir kannske frjósa í hel, af því þeir geta ekki fundið til. Menn sem drekka mikið af sterku víni geta svo deyft neðsta part heilans að lungun hætti að vinna. Þeir sofna útaf og vakna aldrei aftur. Ef það er einn dropi af vínanda í hverjum hundrað og áttatíu af blóði, þá deyr maðurinn.

En hvaða stig ölæðis er það hættulegasta? Það er fyrsta stigið. Fyrstu glösin eru þau hættulegustu. Þetta er sannleikur, því að í fyrsta stigi ölæðis eru efstu frumur heilans í dái, og samvizka, drengskapur, lítillæti og sjálfs-prófun eru í fasta svefni. Þá gerir dýra-heilinn það sem honum sýnist og leiðir manninn oft út í syndsamlegar athafnir. Látlaus drykkjuskapur veiklar smámsaman fínni frumurnar sem stjórna hegðaninni. Mörg siðferðisleg skipbrot meðal unga fólksins eiga sér stað þegar svolítill vínandi er í heilanum. Það hefir verið sannað að flest afbrot sem framin eru, svo sem morð, þjófnaður og fleira, sömuleiðis mörg slys sem fyrir koma, stafi að einhverju leyti af áhrifum áfengis á fyrsta stigi ölæðis sem er því það hættulegasta fyrir þjóðfélagið í heild sinni, sem einstaklinginn.

Enskt máltæki segir: "Sá sem er undir áhrifum víns er farinn að heiman". Og það gefur að skilja, að þegar efstu frumur heilans eru í svefni, þá er maðurinn sjálfur sama sem að heiman því hann veit ekki sjálfur hvað þá gerist. Hann gerir og segir það sem hann mundi ekki gera og segja þegar hann væri algáður, en það er ekki af því að hann sé verri maður í verunni en þeir sem aldrei snerta áfengi, heldur vegna þess að hann veit ekki hvað hann gerir. Af þessari ástæðu leiðir áfengið til ýmsra syndsamlegra athafna sem eg hefi áður minst á, og ætti þessvegna aldrei að vera brúkað sem drykkur. Af tvennu illu væri betra að maðurinn drykki nógu mikið til þess að allur heilinn, nema neðsti partur hans, félli í svefn, svo að hann gæti ekki hreyft sig, því að þá gæti ekki dýrseðlið leitt hann út í ógöngur. Svona ástand er samt sem áður ilt fyrir heilsu mannsins sjálfs og svekkjandi fyrir ástvini hans. Peningarnir fara fyrir vín en börnin líða kannske hungur og klæðleysi heima.

Hver eru nú áhrif vínandans andlega? Af áhrifum vínanda sljófgast frumurnar sem vald hafa yfir minninu, og í því ástandi geta menn ekki reiknað, eða gert annað vandasamt verk, alveg hár-

rétt, því þeir geta heldur ekki hugsað skýrt, Það hefir verið sannað með því að láta algáða menn vélrita, gefa þeim svo vín, og láta þá reyna aftur. Undir áhrifum víns voru þeir seinni og gerðu margar villur. Þetta sama á við hvaða andlega og líkamlega vinnu sem er, sofandi frumurnar geta ekki stjórnað taugunum. Eftir þesskonar rannsóknir, tóku mörg járnbrautarfélög upp þá reglu að banna vinnumönnum sínum að snerta áfengi, eða þá að eiga það á hættu að verða reknir. Mörg iðnaðarfélög fylgdu þeirra dæmi. Einnig er leigðum bílstjórum og flugvélastjórum skipað að snerta ekki áfengi, vegna þess að þeim er öllum trúað fyrir mannslífum. Lindbergh hefði aldrei orðið frægur ef hann hefði verið drykkfeldur. Hvorki vín eða tóbak hafa nokkurntíma komið inn fyrir hans varir. Þannig er það að fólk hefir meira tækifæri til að fá vinnu og halda henni, og til að verða frægt ef svo ber undir, þegar það gengur fram hjá þessum mikla óvin allra framfara.

Nú skulum við íhuga ástæðuna fyrir því að bílstjórum, sem öðrum vélstjórum, stafar mikil hætta af vínnautn. Það hefir verið prófað á Englandi af "The National Institute of Industrial Psychology" hvernig áhrif ölæði hefði á bílstjórn. Af tuttugu mönnum sem prófaðir voru, jókst hraðinn á keyrslu þeirra tíu til tuttugu prósent og þar yfir, við ölæði. En það sem verra var, þeir vissu ekki að þeir keyrðu hraðara. Þeim fanst sjálfum að þeir keyrðu miklu betur, en skýrslur þeirra sýndu hið gagnstæða. En jafnframt því sem þeir keyrðu hraðara höfðu þeir minni stjórn á bílunum, og gerðu þessvegna margar villur. Eftir að drekka bjór jukust villurnar um tólf og hálft prósent, en eftir að drekka sterkara vín, t. d. "whisky", jukust villurnar um tuttugu og átta prósent. Þessar villur orsökuðust bæði af auknum hraða, óstyrkum taugum og af veikluðum sjóntaugum, því ölvaðir menn sjá hlutina tvöfaldast eins og menn vita. Svo, ef hættu ber að höndum, er ölvaði bílstjórinn að minsta kosti einn fimta part úr sekúndu seinni til að stöðva bílinn, sem fer þessvegna tíu til tuttugu fet lengra en annars, og hvað gæti ekki skeð á þeirri vegalengd? Manneskja kannske deydd eða fötluð æfilangt. Er þetta ekki fullgild ástæða fyrir því að allir bílstjórar og aðrir vélstjórar láti vera að snerta áfengi? Jú, því nóg slys koma fyir samt.

Áhrif vínandans á heilann hafa verið útskýrð ítarlega vegna þess að þau áhrif eru skaðlegust siðferðislega og andlega. — Drykkjumaðurinn fótum treður það bezta og háleitasta í sjálfum sér, með þeim afleiðingum að í staðinn fyrir að göfga og bæta mannkynið með því bezta sem í honum er, þá eyðileggur hann það bezta í sjálfum sér og dregur aðra niður til sín ef hægt er. Guðs bezta gjöf til hans er troðin ofan í sorpið!

Í þriðja lagi skulum við ígrunda hvaða áhrif vínandinn hefir líkamlega, það er að segja, á önnur líffæri líkamans en heilann. Áframhaldandi drykkjuskapur skemmir vöðvana. Þetta mínkar lík-

amsþrótt verkafólks og íþróttafólks. Þeir sem óska eftir að skara fram úr í íþróttum snerta enga áfenga drykki. Til dæmis Babe Ruth hefði ekki orðið "baseball" kappi ef hann hefði verið drykkfeldur. Þeir sem svoleiðis eru gefast upp mikið fyr en hinir við hvaða áreynslu sem er. Livingstone tók eftir því, þegar hann var á landkönnunarferð í Afríku að þeir sem brúkuðu áfengi urðu fyrstir til að yfirbugast af erfiðinu, eða af mikla hitanum. Eins sá Greely á ferð sinni til "The North Polar Sea", að þeir sem neyttu áfengis gáfust upp fyr en hinir.

Önnur áhrif vínandans á líkamann eru þau að hann eitrar blóðið og veiklar hjartað. Hann herðir lifrina og kemur í veg fyrir góða meltingu. Öll þessi áhrif í sameiningu, á vöðvana, hjartað og meltingarfærin, mínka lífsþróttinn, mínka mótstöðuafl líkamans fyrir sjúkdómum, og síðast en ekki sízt, stytta lífið sjálft. Dr. C. W. Saleeby, meðlimur í "Church of England Temperance Society" segir: "Nútíðar rannsóknir fullvissa mann um það að bindindi, nefnilega algert bindindi, framlengir lífið um mörg ár, í kringum fimm ár að meðaltali, miðað við svokallaða hófdrykkju". Er það ekki aumkvunarvert að stytta stutt líf svo sjálfviljuglega með þeim ávana að neyta áfengra drykkja reglulega? Og þar sem vínandinn mínkar mótstöðuafl líkamans fyrir sjúkdómum, hljóta menn að deyja mikið meir en fimm árum fyr en annars, úr ýmsum hættulegum sjúkdómum. Í heitu löndunum orsakar áfengi mjög mikið af veikindum, og þar af leiðandi dauða.

Í áttina til að veikla líkamann og stytta lífið, til að spilla siðferðinu og sljófga skynsemina, þá er reglan að drekka lítið daglega, mikið áhrifameiri heldur en að drekka mikið einstöku sinnum. En sá vani er ekki góður heldur, því hann getur leitt til reglunnar að drekka daglega. Þegar fólk drekkur í hófi sem kallað er, það er að segja, lítið daglega, þá hljóta efstu frumur heilans að smá tapa kraftinum til að stjórna því vel andlega og siðferðislega, og líkaminn smá tapar lífsþróttinum, vegna þess að heilinn og líkaminn eru altaf stöðugt undir hinum skaðlegu áhrifum vínandans. En skaðlegur eins og vínandinn er í áhrifum sínum á þá fullorðnu, þá er hann mörgum sinnum skaðlegri fyrir þá sem ungir eru og óþroskaðir, því hann kippir vexti úr þeim og kemur í veg fyrir andlega og siðferðislega þroskun. Áhrifin eru augljósust á þeim ungu. Þau eru augljósari á kvenfólki en á karlmönnum; á þeim veikbygðu en þeim sterkbygðu.

En allar þessar áður áminstu afleiðingar vínnautnarinnar snerta ekki einungis þessa kynslóð, heldur einnig hinar komandi kynslóðir. Í Boston rannsakaði "The Judge Baker Foundation" barnahóp sem komið hafði fyrir rétt frá 1917 til 1925. Eftir ítrekaðar rannsóknir var komist að þeirri niðurstöðu að mikill hluti af þessum hóp kom frá heimilum þar sem annað eða báðir foreldrarnir neyttu áfengra drykkja. Í mörgum tilfellum hafði drykkjuskapur

leitt til þess að foreldrarnir skildu og heimilið flosnaði upp. Vesalings börnin, svift þeim áhrifum sem fylgja góðu heimilislífi, leiddust út í ógöngur og komu fyrir rétt, sum oftar en einu sinni. Það var reiknað út að sextíu og sjö prósent af sekum drengjum sem áttu bindindismenn fyrir feður, en áttatíu og eitt prósent af sekum drengjum sem áttu drykkjumenn fyrir feður, urðu sekir hvað eftir annað. Fjörutíu og eitt prósent af feðrum þessara barna voru drykkjumenn, sjö prósent af mæðrunum neyttu áfengis, og í sex prósent af fjölskyldunum voru báðir foreldrarnir drykkfeld. Þetta sýnir hvaða áhrif vínnautnin getur haft siðferðislega á kynslóðirnar í framtíðinni.

Brezkur læknir, Dr. T. B. Hyslop, hefir það álit á áhrifum vínanda á afkomendurna að það ætti ekki að leyfa manneskjum sem hafa orðið drukknar þrisvar sinnum, eða oftar, að giftast. Hann álítur að afkomendur svoleiðis foreldra gjaldi þess á einhvern hátt, líkamlega, andlega eða siðferðislega, og verði þessvegna ekki fullþroska, og líður þá þjóðfélagið fyrir þetta margvíslega. Fyrir utan hin andlegu og siðferðislegu áhrif fólks sem er ófullþroskað á einhvern hátt, þá er mikill kostnaður lagður á þjóðirnar í sambandi við bæði glæpina, fátæktina og brjálsemina sem oft á rót sína að rekja til vínandans, eins og Dr. Hyslop álítur, og skrifar um í bók sem hann kallar "The Borderland". Einnig segir Dr. C. F. Marshall, í London, að vínandi leiði oft til brjálæðis á þeim sem hann hafa um hönd og á börnum þeirra, sem geti orðið andlega veikluð og úrættuð að minsta kosti. Á sama máli er Dr. Richard C. Cabot, amerískur læknir, sem svona kemst að orði: "Brjálsemi af völdum vínanda myndar mikinn hluta af sjúkdómstilfellum á almennu sjúkrahúsunum. Ef við gætum útrýmt vínanda, gætum við útrýmt miklu af brjálseminni, því sú brjálsemi sem stafar af vínnautn er ættgeng." Eftir öllu þessu að dæma ætti fólk að hugsa alvarlega um framtíðina, því hún byggist á nútíðinni. Það ætti að hugsa til þess að gera ekki það sem getur steypt afkomendum þeirra í siðferðislegt, andlegt og líkamlegt volæði, eins og neyzla vínanda gerir, án efa, í mörgum tilfellum.

Hvað er nú eiginlega þessi vínandi sem er svona þróttmikill óvinur góðrar heilsu, lífsins og alls þess sem göfugast er og bezt? Hann myndast af örlitlum gerlum (bacteria) sem valda skemdum á ávöxtum og korni. Þessir gerlar éta sykurinn úr ýmsum ávöxtum, svo sem eplum og vínberjum, og eins úr korni, en gefa frá sér kolsýru (Carbon Dioxide) og eiturefni sem kallast vínandi (alcohol). Nýr vínberjalögur eða græneplalögur, eða lögur af hvaða ferskum ávöxtum sem eru, hefir bætandi áhrif á heilsuna, en eftir að þessir gerlar hafa gramsað í honum og ollað skemdum, hefir hann skaðleg áhrif á heilsuna. Vínið sem frelsarinn bjó til úr vatni var ferskur, hollur vínberjalögur, en vínið sem nú er talað um, er skemdur vínberjalögur. "Cider" er skemdur græneplalögur; bjór er skemdur

bygglögur. Í fáum oðum er hver tegund af áfengum drykkjum einungis skemdur lögur af ávöxtum eða korni, og allir hafa þeir vissan skamt af vínanda, eiturefnið úr smágerlum sem eru lægsta stig lífsþróunarinnar, og sem eru ósjáanlegar frumur er matast á ávöxtum og korni og orsaka skemd og dauða. Og þetta eiturefni er það sem svo margir sækjast eftir. Þetta eiturefni er það sem orsakar svo mikið böl í heiminum, eins og eg er þegar búin að sýna fram á.

Væri ekki munur ef þessi vínandi væri brúkaður aðeins til þess sem nytsamlegt er, og vatnið væri notað í staðinn fyrir áfenga drykkki, vatnið sem er lífgjafi og er á alla vegu þver öfugt við það sem vínandi er? Þessi tvö efni eru eins ólík og dagurinn og nóttin. Vatn er tengt við líf og þroskun, en vínandi er tengdur við dauða og eyðilegging. Vatn svalar þorsta; vínandi eykur hann. Vatn kæfir eld; vínandi brennur. Vatn mýkir brauð, kjöt og fleira; vínandi herðir það. Vatn leysir upp sykur; vínandi herðir hann. Vatn herðir fitu og kamfóru; vínandi leysir þau upp. Þessir eiginleikar vínandans gera það að verkum að hann er eins skaðlegur og hann er.

Mér finst megi líkja vínandanum við eldinn, enda kölluðu Indíánarnir áfengið "fire-water". Eldurinn er hvorttveggja í senn, einn sá skaðlegasti óvinur sem við höfum, hvað veraldlega hluti snertir, og einn sá þarfasti þjónn sem til er. Eins er vínandinn, en í annari merkingu. Hann er einn sá skaðlegasti óvinur sem við eigum, hvað andlega hluti snertir, og á sama tíma sá dyggasti þjónn þegar hann er brúkaður rétt. Eldurinn skilur eftir brunnar rústir, stóra, svarta bletti og sviðin tré, þegar við töpum valdi yfir honum. Vínandinn skilur eftir brunna heilsu, stóra, svarta bletti á samvizkunni og sviðnar hugsjónir.

Vínandinn er þarfur þjónn á margan hátt þegar hann er rétt brúkaður . Hann er notaður til margra hluta af vísindamönnum í ýmsum tilraunum (experiments) svo sem til að brenna á lömpum og til að geyma í dauð skorkvikindi (insects) og fleira. "Rubbing Alcohol" er nauðsynlegt í sjúkraherberginu. Hann er brúkaður við ýmsan iðnað í verksmiðjum. Ef það væri ekki fyrir vínandann gætu menn ekki notað bíla sína á veturna. Og óteljandi önnur not mætti telja upp sem má hafa af þessu sama efni.

Margir læknar eru með því að nota vínanda sem meðal en aðrir eru á móti því. Eg vil minnast á, í þessu sambandi, grein sem birtist í Lögbergi 1935, sem tekin var úr heilsufræðilegu riti eftir danskan læknir, Dr. M. Hindhede, sem er algerlega á móti notkun vínanda við lækningar. Hann gat sannað það með reynslunni að vínandinn er skaðlegur sem meðal. Hann segir að dauðsprósentan hjá sér hafi verið fjögur prósent á sama tíma sem hún lék á þrettán til sextán prósent á hinum sjúkrahúsunum, sem notuðu vínanda til lækninga. Hann segir líka frá því að á bindindis sjúkrahúsi, sem stofnað var í London, hafi dánar-prósentan verið mikið lægri en á

hinum sjúkrahúsunum og var því farið að mínka áfengisnotkun á þeim líka.

Nú kemur spurningin: "Hvað er bezti vegurinn til að mínka eða útrýma brúkun vínanda í drykki? Bezta aðferðin held eg, sé að veita mentun viðvíkjandi áfengi, börnum og unglingum sérstaklega, vegna þess að sálir ungdómsins eru móttækilegastar fyrir slíka sem aðra mentun, og vegna þess að bezt er að byrja þá kenslu áður en áfengi hefir verið snert. Það er betra að koma í veg fyrir að fyrsta glasið sé nokkurntíma drukkið heldur en að koma þeim til að hætta sem hafa orðið fyrir þeirri ógæfu að stíga fyrsta sporið í þessa átt, þó það sé hægt náttúrlega að rétta þeim hjálparhönd líka. Þessa mentun geta bindindisfélög veitt, og önnur félög, eins og til dæmis Bandalag Lúterskra Kvenna, kirkjan, skólarnir og heimilin.

Hvað viðvíkur bindindisfélögunum, þá byrjaði skipulögð bindindishreyfing, eins og hún skilst nú á dögum, fyrst í Bandaríkjunum og á Bretlandi snemma á nítjándu öld. Árið 1851 var góð-Templara reglan stofnuð í New York. Eftir sjötíu og fjögur ár, 1925, voru tvær þjóðlegar stórstúkur í Bandaríkjunum og Canada, og sjötíu stúkur með 600,000 meðlimi, unga og gamla. Árið 1865 voru öll bindindisfélög með sömu stefnu sameinuð í "The National Temperance og Publication House", sem gaf út bæklinga, kenslubækur og blöð, hélt opinbera fundi og hafði samþjóðleg (international) þing. Árið 1874 var stofnað "The Women's Christian Temperance Union", sem er einn sterkasti þátturinn í bindindis-hreyfingunni, sem fljótt breiddist út.

Stofnanir sem þessar, og ýms önnur félög, eru nauðsynleg til að útbreiða bindindis hugsjónir. Önnur stofnun sem gott tækifæri hefir til að gera hið sama er kirkjan. Hún getur, og gerir mikið af því að vekja og úbreiða þessar hugsjónir bæði á meðal æskulýðsins og hinna fullorðnu. Einnig hafa skólarnir ótakmarkað tækifæri til að innræta börnunum óhollustu vínandans. Enda er það eitt af því sem á að kenna í heilsufræði á skólunum samkvæmt því sem stendur í "School Curriculum and Teachers' Guide". Þar er sagt: "Drink is a foe to all economic, political and social wellbeing, a destroyer of homes and a blight on youth." En bezta tækifærið finst mér að heimilin hafi til þess að móta hugarfar barnsins viðvíkjandi þessum mikla óvini mannkynsins. Gott eftirdæmi og góð leiðsögn á heimili barnsins, í bindindisefnum sem öðrum, leggja grundvöllinn sem skólarnir, kirkjan og ýms félög geta bygt á síðar. Ef grundvöllinn vantar þá vantar mikið. Ef því heimilin, skólarnir kirkjan, bindindis-félögin og önnur félög takast í hendur og menta heiminn gagnvart vínandanum gæti komið að því að fólkið héldi sig frá áfengi algerlega, ekki vegna þess að því sé bannað það með lögum, heldur vegna þess að það hefði enga löngun til þess að neyta áfengis. Það er hægt að sýna fólkinu fram á það, og það hlýtur að sjá það á endanum, að víndrykkja er íll í eðli sínu og getur þessvegna aldrei verið annað en böl í heiminum. Það álit hafa haft

mestu menn þessa lands og hafa þeir gefið gott eftirdæmi. Abraham Lincoln sagði einu sinni í samsæti þar sem honum var boðið vín: "Eg hefi lifað í fimtíu ár án þess að neyta áfengis og finst það ekki þess vert að breyta vana mínum nú." Annar Bandaríkja forseti, General William Henry Harrison, sagði þegar hann var beðinn hvað eftir annað að drekka skál í samsæti: "Eg gerði þá ákvörðun þegar eg byrjaði á lífsbrautinni, að snerta aldrei áfengi og eg hefi efnt það. Eg er einn eftir af seytján ungum mönnum sem útskrifuðust úr háskóla saman. Drykkjuskapur leiddi hina sextán í gröfina. Eg á heilsu mína, lífsgleði og framför að þakka þessari ákvörðun. Viljið þið koma mér til að bragða vín eftir þetta sem eg hefi sagt?" Ennfremur er haft eftir Wendell Phillips, amerískum ræðusnillingi: "Í Ameríku hvíla ekki lögin á skotvopnum, heldur á hjörtum fólksins. Drykkfeld þjóð getur aldrei verið grundvöllur undir frjálsu stjónarfyrirkomulagi."

Þessar fjórar áðurnefndu stofnanir, heimilin, skólarnir, kirkjan og bindindisfélögin, sem og ýms önnur félög, ásamt leiðtogum eins og þeim sem eg mintist á, gætu í sameiningu orsakað bergmál bindindishugsjóna um víða veröld, bergmál sem á leið sinni færi vaxandi og næði til einstaklinga, heimila og félagskapar, og þar af leiðandi snerti þjóðlífið sjálft. Mér dettur í hug það sem enska skáldið Tennyson segir í kvæðinu 'Bugle Song", þar sem hann ber saman bergmál í vanalegri merkingu og bergmál áhrifa sálna okkar. Línurnar sem eg er að hugsa um eru þessar

"O, love they die on yon rich sky,
They faint on hill or field or river,
Our echoes roll from soul to soul,
And grow forever and forever."

Það þyrfti að fara sívaxandi yfir alla veröldina, alt til enda, bergmálið:

"Snertið aldrei fyrsta glasið!"

---

# Konan og Kirkjan.

Flora Benson.

Flutt á ársþingi B. L. K. 1937.

---

Forseti Bandalags Lúterskra Kvenna,
Erindrekar og gestir:

Þegar eg fór að athuga efnið, er mér var falið að tala um hér í kveld, kom mér í hug margt er eg hafði heyrt frá frumbýlingsárum hér í Manitoba, (því ekkert ferðast hraðara en hugur manna).

Það er erfitt fyrir okkur, er hér höfum fæðst og dvalið alla okkar æfi, að gera okkur grein fyrir þeirri angist og þeim kvíða er það hefir í för með sér, að flytja heimili sitt og fjölskyldu frá einni heimsálfu til annarar; að slíta bönd vináttu og kærleika og byrja nýtt líf í ókunnu landi.

Getum við gert okkur grein fyrir þeim söknuði er gagntók hug og hjörtu þessara forfeðra vorra, er þeir frá þilfari skipsins, er var að bera þá til hins nýja lands, sáu strendur íslands hverfa í sjó. ísland horfið, en framundan víðfaðma haf, þoka, óvissa. "Nú er horfið Norðurland, nú á eg hvergi heima."

Að þettta stóra spor, sem hafði svo mikinn sársauka í för með sér, var ekki stigið fyr en eftir mikla og djúpa umhugsun getum við vel skilið.

Norðmenn fluttu frá Noregi til íslands og urðu þar af leiðandi síðar viðurkendir sem íslendingar: svo fluttu íslendingar til Vesturheims og eru nú Ameríkumenn, Canadamenn.

Sagan lýsir því og kallar það manndóm er forfeður vorir brutust undan ofbeldi og þjökun í Noregi, og lögðu út á hafið, þó í óvissu væri, heldur en að lúta kúgun af völdum Haraldar konungs. Var það síður hugrekki, er íslendingar lögðu út á hið mikla Atlantshaf að leita sér og börnum sínum lausnar undan harðæri og vonleysi er þeir höfðu búið við á íslandi, til nýrrar heimsálfu, til framtíðarlandsins, þar sem börn þeirra myndu njóta tækifæris til þroska. Fólk leggur aldrei of mikið á sig fyrir framtíðina.

Margt og mikið hefir verið ritað, bæði í bundnu og óbundnu máli, um fyrstu ár íslendinga hér í álfu, en engin orð geta

lýst tilfinningum "Konu landnemans". Stundum hefir hún verið kölluð "The silent partner of the Pioneer". Sumum finst þetta ekki eiga vel við að konunni sé þannig lýst. Þeim finst orðið "silent", "þögul", ekki einkenna konuna. Þrátt fyrir þetta vitum við að þessar frumherja mæður hafa lifað í kyrþey, margar áhyggjustundir, af KVÍÐA, fyrir framtíðinni, af HEIMÞRÁ, því alt er umkringdi þær var svo ólíkt því er þær höfðu vanist; af ÓVISSU, því ástvinirnir voru hér og hvar að vísu oftast í vinnu, en þetta nýja land var svo stórt. Máske börn hennar hafi orðið eftir í borginni og þá var hún viss um að þeim myndi leiðast og "Veröldin er svo hál og brött". Hún hefir ekki haft hátt um allar sínar hugsanir.

"Þó margt hafi breyzt síðan bygð var reist,
geta börnin þó treyst sinni íslenzku móður,
Hennar auðmjúka dygð, hennar eilífa trygð,
Eru íslenzku bygðanna helgasti gróður.
Hennar fórn, hennar ást, hennar afl til að þjást,
Skal í annálum sjást, verða kynstofnsins hróður,
oft mælir hún fátt, talar friðandi lágt,
Hinn fórnandi máttur er hljóður."

kvað Davíð Stefánsson frá Fagraskógi.

Það sem ætíð vekur aðdáun í huga mínum er það hve fljótt konurnar tóku til starfa, hér í nýja landinu. Þessar konur, er höfðu alist upp í ríkiskirkjunni á Íslandi og höfðu þar af leiðandi ekki lært að starfa í fríkirkju. Strax fara þær að hópa sig saman í félög til þess að vinna að líknarstarfi. Þetta sem var þá og er enn þann dag í dag, mikilvægt mál.

Mynd af fyrsta kvenfélaginu er stofnað var í Winnipeg, hangir í fundarsal Fyrstu lútersku kirkju. Á þessari mynd eru konur sem enn eru meðlimir kvenfélagsins. Þetta er orðið nokkuð langt starf frá 1885 til 1937, 52 ár. Margs er að minnast og margs að sakna.

Nú hafa mörg kvenfélögin innan Kirkjufélagsins haldið upp á 50 ára afmæli sitt.

Því voru þessi félög stofnuð? Eflaust af tilhlutun forustukonu er fann til þess, að hér væri mikið starf fyrir hendi og að sameiginlega gæti það verið best unnið. Sagan sýnir, að þrátt fyrir það, að nokkrir einstaklingar hafa látið gott af sér leiða, við eitthvert sérstakt tækifæri, þá er það þó samt, samtök einstaklinga (félögin) sem mestan skerf eiga í verulegum framkvæmdum, og það sem viðvíkur þessum einstaklingum þá finst mér að í stað þess að einangrast, hefðu þeir eða þær orðið bæði sér sjálfum og mannfélaginu til miklu meira gagns ef þau hefðu gerst meðlimir félagsskapar.

Störf kvenna lutu eingöngu að því, að bæta hag manna og málefna; þær vildu út af lífinu gera alt til þess að börn þeirra gætu notið mentunar. Að þau gætu notið tækifæris til þroskunar sem þeim sjálfum hefði aldrei getað hlotnast. Þær gáfu af því litla sem þær höfðu til þess að bæta hag nágranna síns er átti örðugri aðstöðu en þær sjálfar. Það var sérstaklega eftirtektarvert, að á heimili, þar sem stór barnahópur var fyrir, var æfinlega pláss fyrir annað barn sem heimilis þarfnaðist, því á þessum þröngu, hörðu tímum dóu margar mæður frá barnahóp sínum og þá tvístraðist hópurinn. Ástvinirnir er eftir lifðu þessar mæður, sem svo snemma voru kallaðar burt frá fjölskyldu sinni, fanst, að þær hafi dáið fyrir tímann sökum örbirgðar og skort á læknishjálp, en Guð einn veit hvert það var svo: máske þeirra æfi hafi verið fullnuð, "A life fulfilled". Það er ekki okkar að segja um það, en að þakka af hjarta að þau (börnin) fengu að njóta þeirra, þó af skornum tíma, frá okkar sjónarmiði. Það lifa eftir í hjörtum þeirra mörg heilnæm ráð og hugljúfar bænir. Hún sagði þeim að vera væg í dómum, því:

"Einn þó gangi illan veg, augum fyrir mínum,
Máske hann stríði, meira en eg, móti brestum sínum."

Tíminn líður og breytist. Kjör landnemans fara smá batnandi. Kirkjur voru reistar og sunnudagsskólar stofnaðir. Við sem erum af annari eða þriðju kynslóð frá frumbýlings mæðrum og feðrum stöndum á milli þessara mjög ólíku liða (landnemans og barna okkar), okkur finst að milli þessara liða sé mikið djúp, því við skiljum betur afstöðu þessara liða en þeir gera hver fyrir sig.

Hvað er þá hlutverk okkar?

Á kirkjuþinginu er haldið var á Gimli fyrir tveimur vikum, flutti ungur maður, Norton Anderson, Selkirk, Man., erindi er hann nefndi "Language vs. Organization". Með þessu erindi var gerð grein fyrir afstöðu ungu, uppvaxandi Íslendinganna er kirkjufélagi voru tilheyra. Eg vona að þið lesið allar fyrirlesturinn þegar hann kemur á prent.

Við finnum eflaust allar til þess, að við stöndum á mikilvægum tímamótum, viðvíkjandi félagsmálum og tungumáli?

Hvernig verðum við, við kröfum æskulýðsins?

Bandalag Lúterskra Kvenna lýsir gleði sinni yfir því, að Kirkjufélagið á nú vel vakandi Ungmennafélag, sem finnur til þess að það hefir verk að vinna, innan vébanda lútersku kirkjunnar. Ef við, sem eldri erum, vitum "hvað til vors friðar heyrir", þá verðum við að leggja töluvert á okkur fyrir samtökin. Íslenzkan verður alls ekki þeirra aðal mál, þá er það okkar að hvetja æskulýðin til þess að fylgjast með því sem bezt er í íslenzkum bókmentum og sem þýtt hefir verið á ensku.

Við heyrum víða umkvörtun um deyfð og áhugaleysi hjá kirkjunnar lýð, og það sem verst er, er að þetta er satt. Af þessum mörgu Íslendingum er land þetta byggja eru það mjög fáir er gera sér það að vana að sækja kirkju. Hvernig verja menn (og konur) tíma sínum að þeir hafi ekki tíma til þess að sækja kirkju?

Getum við sem félagsheild, stuðlað að auknu kappi og áhuga fyrir krikjusókn? Hefir félagið þitt haldið "Church Parade", valið að minsta kosti einn sunnudag á ári, þar sem félagið kemur saman við guðsþjónustu, í sameiginlegri bæn og þakkargerð?

Hvaða þroska hefir kvenfélagsstarfsemi okkar tekið þessi síðastliðnu ár?

Höfum við farið þannig með málefnin á fundum okkar að þau hafi notið sín eins og vera bar? öll mál þurfa að vera rædd af sanngirni, með hag heildarinnar fyrir augum, fremur en persónu vegsemd einstaklingsins. Reipdráttur má hvergi komast að þegar um velferðarmál okkar er að ræða. Hvert heldur sem um hin stærri félög er að ræða eða þau smærri. Kjarni allrar samvinnu hvílir á góðvild og ræktarsemi hvers einstaklings, innan félagsskaparins. Vegna þess að hið fornkveðna stendur enn í fullu gildi, "Að sameinaðir stöndum vér en sundraðir föllum vér."

Það var óneitanlega spor í rétta átt er B. L. K. beitti sér fyrir því að semja programmes eða skrá er hin ýmsu félög gætu notað. Þetta víkkar sjóndeildarhring félaganna.

Það er komin tími til þess, að kvenfélögin beiti kröftum sínum í víðtækari skilningi. Því eru ekki konur í fulltrúanefnd safnaðanna? Að vísu eru þær það hér og hvar, en ekki í öllum söfnuðum, og því stýra ekki konur sínum eigin samkomum?

Nú hefir Kirkjufélagið ákveðið að endurskoða grundvallarlög sín og aukalög og gera þær breytingar er breyttar kringumstæður og breytt viðhorf krefst. Í hinum endurskoðuðu lögum ætti að vera sett ákvæði um það að forseti B. L. K. skuli eiga sæti á kirkjuþingi með fullum þingréttindum, auk þess sem árssýrsla félagsins verði veitt móttaka á þingi á sama hátt og skýrslum embættismanna og milliþinganefnda.

Sú er bæn mín, að félög okkar megi vaxa og auka landnám sitt, eigi aðeins hvað meðlimafjölda viðvíkur, heldur miklu fremur eða raunar umfram alt, að andlegri göfgi og trúmensku við hann sem var og er "Vegurinn, sannleikurinn og lífið."

* * *

# Merkar konur í fornkristni Íslands.

**Erindi flutt á ársþingi Bandalags Lúterskra Kvenna 3. júlí 1937.**

**Eftir Soffíu Wathne.**

---

Snemma á níundu öld, eða einhverntíma eftir árið 793, munu Norðurlandabúar fyrst hafa kynst kristinni trú. Á víkingaferðum sínum fóru þeir oftast til Írlands, Skotlands, Englands og Suðureyjanna, en í þeim löndum öllum bjuggu kristnar þjóðir. Fyrst framan af fóru þeir með ránum og grimd; drápu saklausa menn og rændu þá öllu sem fémætt var. Helst réðust þeir á klaustur og kirkjur, því þeir höfðu fljótt komist að því að þar var mestur auður samankominn á einn stað, og minst vörnin fyrir. Í byrjun hafa þeir því lítið vitað um kristnina annað en það, að þeirri trú fylgdi sá siður að reistar voru veglegar byggingar til tilbeiðslu og að þessir samkomustaðir voru svo prýddir fáséðum og dýrmætum munum úr gulli og silfri, gimsteinum glitvefnaði og allskonar skrauti. Það var því alveg sjálfsagt að leita fyrst helgistaðanna á víkingaferðum sínum og ræna þá öllu sem verðmætt var. En er stundir liðu fram og hinum norrænu Víkingum hafði tekist að leggja undir sig héruð og smáríki í löndum þessum, og höfðu tekið sér þar bólfestu innan um kristið fólk, gat ekki hjá því farið að þeir kyntust betur hinum nýja hugsunarhætti og kristnum sið. Þeir hafa þá eflaust litið undrandi augum hina skrautklæddu presta með ilmandi reykelsi, kertaljósin óteljandi og alla þá dularfullu athöfn, er kaþólskri messugerð fylgir. Það er óhugsanlegt að menn, eins tilfinningaríkir og glysgjarnir og þessir norrænu kappar voru, hafi getað litið alla þessa undursamlegu viðhöfn, þetta íburðarmikla skraut, án þess að verða fyrir djúpum og sterkum áhrifum; enda létu margir skírast. Illa gekk þeim nú samt að fella sig við hina nýju kenningu sem boðaði frið, bannaði með öllu víg og blóðsúthellingar, kendi auðmýkt, umburðarlyndi og fyrirgefingu á öllum mótgerðum. Ásatrúin var orustu og vígatrú, stefndi að því að afla sér frægðar og frama og hefna fyrir allar mótgerðir. Sérstaklega var það hefndargirnin sem örðugast var að útrýma. Hún var svo rótgróin og sterk. Hver ætt var einskonar ríki fyrir sig og væri einum ættmanni misgert, náði það til allrar ættarinnar. Hvert meiðyrði, hver áverki og hvert víg, varð skammarblettur á allri ættinni, nema þess væri hefnt með líkum hætti eða heimtar fébætur. "Auga fyrir augu og tönn fyrir tönn", var lífsreglan og hefndin drengskaparmál. Það var alveg óhugsanlegt að þetta gamla heiðna hugarfar gæti á stuttum tíma meðtekið, eða felt sig við hina nýju kenning um

fyrirgefningu á mótgerðum. Sjálfsagt hefir þeim hlotið að finnast eigi síður en Bolla Þorleikssyni "sá siður veiklegur mjög". Líka voru þeir að eðlisfari tryggir og fastheldnir og veittist erfitt að slíta trygð við hin gömlu goð. Þessari fyrstu skírn til kristni hefir því fylgt lítið annað en það, að Kristur var tilbeðin ásamt hinum fornu goðum eða dýrðlingum og talinn einn af þeim. Nokkrir voru það þó, er þroskaðri voru andlega, og hjá þeim var Ásatrúin fyrir löngu hætt að fullnægja kröfum hjartans og hafði tapað að mestu leyti sínum upprunalega háleita helgiblæ, þeirra hugarfar var því miklu móttækilegra fyrir hina nýju kenningu og þar festi kristnin dýpri rætur, og frá þeim breiddist hún síðar til Noregs og Íslands.

Margir hinna fyrstu landnámsmanna er bygðu Ísland voru einmitt af þessum flokki og höfðu dvalið árum saman í þessum kristnu löndum, og látið skírast. Á meðal þeirra er bezt voru kristnir, má nefna börn og ættmenn Ketils flatnefs, þeirra verður nánar getið, alla þá er írskir voru eða sumpart írskrar ættar, og fleiri. Ekki náði samt kristni neinni verulegri festu á Íslandi fyr en eftir árið 1000 að hún var lögtekin á Alþingi.

Allir þeir landnámsmenn er vel voru kristnir, héldu trú sinni til dauðadags, en börn þeirra gleymdu henni og snérust til heiðni, eins og niðjar Auðar djúpúðgu, er "reistu hörg heiðnum goðum" á Krosshólum þar sem hún áður hafði haft um hönd kristilegt bænahald, og segir Landnáma, "að land alt hafi þá verið heiðið nær hundraði vetra". Niðjar Ketils fíflska á Kirkjubæ, munu hafa verið þeir einu er aldrei töpuðu trú sinni, og gekk sú saga að í Kirkjubæ gætu eigi heiðnir menn búið, því þar höfðu "papar" verið áður en landið bygðist.

* * *

Þetta er þá Ísland í fornöld. Ekki er þess getið að konur hafi átt nokkurn þátt í því að reyna að útbreiða kristni, en vel kristnar voru samt sumar þeirra að sögn. Ein hin fyrsta er sögur fara af, var Auður djúpúðga, hún bygði Breiðafjörð og bjó í Hvammi í Hvammsfirði. Það var um 892. Hún var dóttir Ketils flatnefs og var ekkja Ólafs hins hvíta Írakonungs. Þau voru bæði norræn. Ólafur hvíti hafði herjað í vesturvíking, unnið undir sig Dýflinni á Írlandi, og gerst þar konungur yfir. Ólafur féll á Írlandi í orustu, en Auður og Þorsteinn rauði sonur hennar fluttu til Suðureyja. Þar kvæntist Þorsteinn systur Helga magra. Þorsteinn rauði gerðist mesti herkonungur. Með öðrum félögum vann hann undir sig meira en hálft Skotland og var þar konungur þar til Skotar sviku hann og drápu. Nokkru eftir fall Þorsteins lét Auður gera skip mikið og lagði af stað til Íslands með öll börn Þorsteins sonar síns, annað frændfólk og marga þræla. Á leiðinni kom hún við í Orkneyjum og Færeyjum og gifti þar tvær af sonardætrum sínum.

Þegar til Íslands kom fór hún á fund við Helga bjólu bróður sinn. Hann bauð henni heim með helming liðs síns, en henni þótti varboðið, og kvað hann "lengi mundu lítilmenni vera". Hún fór þá vestur í Breiðafjörð til Björns bróður síns. Hann þekti betur skap systur sinnar, tók veglega á móti henni og bauð heim að Bjarnarhöfn með alt sitt lið 40—50 manns. Hún þakkaði honum höfðingskapinn og þáði boðið. Þar var hún um veturinn. En um vorið fór hún í landaleit inn í Breiðafjörð og nam öll Dalalönd í innanverðum firðinum, og bjó í Hvammi við Örriðarós. Auður djúpúðga hefir sjálfsagt verið betur kristin en flest fólk á hennar tíð, hún lét strax reisa krossa á hólum nokkrum er síðar voru kallaðir Krossbhólar, og hafði þar jafnan bænahald sitt. Hún sýndi líka vel kristilegt hugarfar með því að gefa lönd öllum skipverjum sínum, og þrælum sumum gaf hún frelsi. Þorsteinn rauði sonur hennar hafði átt sex dætur. Öllum sonardætrum sínum sá hún fyrir góðu gjaforði, en yngsta barn hans, Ólaf feilan, tók hún til fósturs, og ól upp sem son.

Auður var nú orðin hnigin að aldri og var áfram um að Ólafur fóstursonur hennar er hún elskaði mjög, festi ráð sitt. Vakti hún máls á þessu við Ólaf og festi hann sér Álfdísi barreysku, dóttur Konáls Steinsmóðssonar, og skyldi brúðkaupið haldast seint sumars. Auður bauð nú til sín öllum frændum sínum og mágum og mörgum tignum gestum, og bjó þeim dýrlega veizlu. Var hún þá svo ellihrum að hún klæddist aðeins stutta stund daglega. Samt gekk hún á móti boðsgestum sínum og bauð alla velkomna. Var nú gengið inn í skála og fanst mönnum mikið um, hversu veizlan var sköruleg. Þar arfleiddi hún opinberlega Ólaf fósturson sinn að eigum sínum. Þegar veizlan hafði staðið þrjár nætur valdi hún gjafir vinum sínum og réð þeim heilræði. Sagði hún þá að veizlan skyldi standa enn þrjár nætur og vera erfi sitt. Gekk hún þá hratt og skörulega til svefnstofu sinnar en bað hvern hafa þá skemtun er honum væri næst skapi. En þá nótt eftir, andaðist hún, og þótti mönnum mikils um vert hversu hún hafði haldið virðingu sinni til dauðadags. Var nú drukkið saman brúðkaup Ólafs og erfi Auðar. Síðasta dag boðsins var lík hennar flutt til haugs og lagt í skip, og mikið fé með henni. Hún hafði tilkynt vinum sínum að eigi vildi hún liggja í óvígðri mold. Haugurinn var því gerður í flæðarmáli, því þar sem sjór féll yfir, var jörðin talin helg. Eftir fráfall þessarar merku konu sem æfilangt hafði í allri sinni framkomu sýnt hve vel hún var kristin, veiktist mjög trú frænda hennar og niðja. Því eins og áður hefir verið sagt, blótuðu þeir goðin á hinum gamla bænastað hennar á Krosshólum, og urðu með tímanum alheiðnir.

Aðrar konur á landnámsöldinni sem að sögn voru vel kristnar þó þeirra sé annars lítið getið, voru þær systur Auðar. Jórunn mannvitsbrekka og Þórunn hyrna. Jórunni mannvitsbrekku tókst svo vel að gróðursetja trúna í sálu sonar síns, Ketils fíflska, að

hann og hans niðjar héldu einir kristni á Íslandi þar til hún var lögtekin um land alt. Hefðu fornsögurnar verið skrifaðar frá kristilegu sjónarmiði, hefði hennar eflaust verið nánar getið. Þórunn hyrna var líka vel kristin, en maður hennar, Helgi magri, ekki eins vel. Þau bygðu Eyjafjörð og nefndu bæ sinn Kristnes, en að sögn Landnámu var Helgi "blandin mjög í trú"; hann þóttist kristinn "en hét samt á Þór til sæfara og harðræða." "Hjálp", kona Örlygs Hrappssonar mun líka hafa verið vel kristin. Þau hjón fluttu með sér kirkjuvið, járnklukku og annað er laut að kikjugerð og létu reisa kirkju þar sem klukkan féll í sjó, á Kjalarnesi. Fleiri konur mætti nefna, en þeirra er samt lítt getið; skulum við því segja skilið við hina fyrstu landnema, hlaupa yfir hundrað árin heiðnu, og koma að hinu næsta tímabili, kristnitökunni. Hugarfar þjóðarinnar hefir verið að smá breytast. Hinn kristni hugsunarháttur sem svo lengi hefir legið í dái, er nú að gera vart við sig aftur. Ásatrúin er í hnignun, hún fullnægir ekki lengur kröfum mannsandans sem þráir eitthvað hærra og göfugra, en hefir aðeins óljósa hugmynd um hina æðri veru, eins og Þorkell máni, sem Landnáma segir að hafi látið bera sig út í sólargeisla í banasótt sinni og falið sig á hendur þeim Guði er sólina skapaði.

Ein fremsta kona á þessu tímabili, var Guðrún Ósvífrsdóttir. Í hinum viðburðaríka æfiferli þessara merku konu, finnast allar lyndiseinkunnir hinnar íslenzku þjóðar, sem áður hefir verið lýst. Stórmenska víkingaaldarinnar með sínum kostum og göllum sést hvergi betur. Þar blandast ást og hatur, hið illa og góða berst um yfirráðin. Ofsi, stærilæti, umburðarleysi og hin grimma hefndargirni heiðninnar á þar í sífeldri baráttu við auðmýkt, umburðarlyndi kærleika og fyrirgefningu kristninnar. Oftast er það hið rótgróna heiðna hugarfar er sigurinn vinnur, en að endingu yfirbugar þó það góða hið illa.

Guðrún var dóttir Ósvífrs Helgasonar er bjó á Laugum í Sælingsdal og var fædd árið 974. Hún var fríð sýnum, vel greind og þótti mesti kvenkostur. Gestur Oddleifsson er bjó í Haga á Barðaströnd, var frændi Guðrúnar. Gestur var mesti höfðingi. Spekingur að viti og framsýnn um marga hluti. Eitt sinn er Gestur reið til þings, kom hann að Sælingadalslaugum. Þar hitti Guðrún frænda sinn, og eftir nokkuð samtal biður hún hann að ráða fjóra drauma, er hún segir sig hafi dreymt og ollið hafi sér mikillar áhyggju, en engin getað ráðið svo sér líki.

Í fyrsta draumnum þóttist hún standa við læk, og var með fald á höfði sem henni geðjaðist lítið að og vildi því breyta. Henni var ráðlagt að gera það eigi, en hún hlýddi ekki, greip faldinn af höfði sér og kastaði í lækinn. Í öðrum draumnum þóttist hún vera stödd við vatn, og hafa silfurhring á hendi er henni fanst mesta gersemi og ætlaði sér lengi að eiga; en er minst varir, rennur hringurinn af hendi hennar í vatnið og sá hún hann aldrei framar. Í þriðja

draumnum þóttist hún hafa gullhring á hendi mikið vænni en hinn fyrri, en alt í einu hrasar hún og ætlar að styðja sig. Kemur hringurinn þá við stein og brotnar í tvent, og þótti henni dreyra úr brotunum. Þá sér hún að hringurinn hefir verið brostin áður, og þykist hún vita að hann hefði aldrei brotnað ef hún hefði haft betri gát á honum; finst henni þetta meiri harmur en skaði. Í fjórða og síðasta draumnum þóttist hún hafa gullhjálm á höfði, settan gimsteinum, og fanst mesti dýrgripur. Svo var hann þungur að hún gat varla borið, samt vildi hún ekki taka hann af sér, en alt í einu steypist hann af höfði hennar og sekkur í Hvammsfirði. Gestur ræður draumana þannig, að hún muni eignast fjóra eiginmenn. Muni hún lítt unna þeim fyrsta og því skilja við hann. Þeim næsta muni hún unna mikið, en njóta skamma stund; ekki væri ólíklegt að hann druknaði. Hinn þriðji yrði ólíkur þeim fyrri í því, að siðaskifti yrðu þá komin í landinu, og muni hann hafa tekið við þeim háleitara sið. Sá bóndi yrði veginn og muni hún þá sjá þverbresti þess ráðahags. Fjórði maðurinn yrði mesti höfðingi, en mundi farast í Hvammsfirði. Guðrúnu líkaði ílla ráðning draumanna, samt þakkaði hún frænda sínum fyrir, en hún var aðeins fimtán ára þegar fyrsti draumurinn rættist. Þá var hún gift nauðug Þorvaldi syni Halldórs Garpdalsgoða, en skildi við hann eftir tveggja ára sambúð. Annar maður hennar var Þórður Ingunnarson. Þegar þau kyntust fyrst, voru bæði gift. En er Guðrún hafði skilið við fyrsta mann sinn, kom hún Þórði til að skilja við konu sína og giftust þá Guðrún og Þórður. Eftir örstutta sambúð druknaði maður hennar og rættist þá annar draumurinn. Nú var Guðrún ung ekkja um tvítugt. Þá kyntist hún þeim fóstbræðrum Kjartani Ólafssyni og Bolla Þorleikssyni sem báðir voru ungir og allra manna glæsilegastir. Báðir feldu ástarhug til Guðrúnar, en það leyndi sér ekki að hún tók Kjartan fram yfir Bolla. Nú kom að því að Kjartan sigldi til Noregs; vildi þá Guðrún fara með honum, en hann hafði á móti því og bað hana heldur að bíða sín ólofaða í þrjú ár. Ekki vildi Guðrún lofa neinu og skildu þau fremur ósátt. Bolli fór með Kjartani til Noregs og urðu þeir mestu vinir Ólafs konungs Tryggvasonar og Ingibjargar systur hans. Þar tóku þeir kristna trú. Sérstaklega var það Kjartan sem Ingibjörgu virtist falla vel í geð, og varð þar hinn mesti vinskapur. Aldrei mun Kjartan þó hafa gleymt Guðrúnu eða hún honum. Bolli kom nú aftur til Íslands, á undan Kjartani og færði þær fréttir Guðrúnu og öðrum að ekki væri von á Kjartani. Lét hann mikið yfir vinskap þeirra Kjartans og Ingibjargar og gaf í skyn að Ólafi konungi yrði það ekki móti skapi ef þau giftust. Nú biður Bolli Guðrúnar en hún segist engum muni lofast meðan Kjartan sé á lífi. Bolli svarar að hún verði þá að bíða mörg ár mannlaus ef hún ætli að bíða Kjartans. Ósvífur faðir hennar sækir þetta mál fast með Bolla, og verður það loksins úr, að Guðrún er gift honum, en nauðug þó. Nú líður að heimför Kjartans til Íslands, og kveður Ólafur konungur hann með mestu vinsemd, biður hann halda vel trú sína, og gefur honum að

skilnaði ágætt sverð, og segist vænta þess að Kjartan verði eigi vopnbitin meðan hann beri sverðið, en Ingibjörg gaf honum gullofin motur sem hún ætlaðist til að hann gæfi Guðrúnu í bekkjargjöf. Sagðist hún vilja að íslenzku konurnar sæu það, að kona sú er hann hafi átt tal við í Noregi væri ekki þrælaættar.

Þegar Kjartan kemur til Íslands er honum sagt frá giftingu þeirra Guðrúnar og Bolla. Kjartan lætur sér ekki bregða, en nokkru eftir heimkomu sína giftist hann Hrefnu Ásgeirsdóttur. — Hrefna var fögur, vitur og væn, og hin bezta kona. Henni gaf Kjartan auðvitað moturinn frá Ingibjörgu, sæmdi hann Hrefnu vel, og tókust með þeim góðar ástir. Nú brann heiftin og afbrýðissemin í hjarta Guðrúnar, og naut hún ei hvíldar fyr en hún hafði látið stela sverðinu frá Kjartani, og motrinum frá Hrefnu. Moturinn lét hún eyðileggja, en það var ekki nóg — Hrefna átti enn eftir það sem Guðrún öfundaði hana mest af, en það var Kjartan sjálfur. Hún hætti því ekki fyr en hún hafði eggjað Bolla og bræður sína til þess að sitja fyrir Kjartani og drepa hann. Þá fyrst lét hún í ljós ánægju sína, og mælti að "Hrefna gengi eigi hlægjandi að sæng sinni það kvöld." Við þessu reiddist Bolli maður hennar og svaraði henni því "að sér mundi ósýnt þykja að Hrefna fölnaði meira við þessi tíðindi en Guðrún, og það grunaði sig að hún brigði sér minna við þótt hann lægi dauður á vígvellinum, en Kjartan segði frá tíðindum". Nokkru eftir dráp Kjartans, var Bolli veginn og var Guðrún nú ekkja í þriðja sinn. Fjórði maður hennar var Þorkell Eyjólfsson frægur maður, stórauðugur og kynstór. Hann druknaði í Hvammsfirði og kom þar fram fjórði og síðasti daumurinn. Eftir fráfall Þorkels gerðist Guðrún hin mesta trúkona og var flestar stundir við guðsdýrkun og bænahald. Að endingu gerðist hún nunna og bjó að Helgafelli; þar grét hún syndir sínar í einveru, eftir viðburðaríkt en fremur mæðusamt líf. Hún var þá einu sinni spurð af Bolla syni sínum hvern, af öllum þessum mönnum, henni hefði þótt vænst um. Hún svaraði seint, en mælti loksins: "Þeim var eg verst er eg unni mest", og átti hún þar auðvitað við Kjartan Ólafsson sem hún lét taka af lífi heldur en vita hann giftan annari konu.

Önnur merkiskona á þessu sama tímabili var Þorbjörg digra, kona Vermundar mjóa í Vatnsfirði. Stórvitur kona og skörungur mikill. Hún hafði héraðsstjórn og skipaði öllum málum þegar maður hennar var að heiman. Þegar bændur vestra tóku Grettir og ætluðu að hengja fyrir rán og óspektir í fjærveru Vermundar, kom Þorbjörg þar að og leysti hann úr höndum þeirra og hafði alla ábyrgð á honum og gerðum hans þar til Vermundur kom heim. Af þessu varð hún mjög fræg víða um sveitir.

Enn fleiri mætti nefna er uppi voru á kristnitöku tímabilinu, ef tími leyfði, en Guðúnar Ósvífrsdóttur er hér nánast getið vegna þess að hún mun vera fyrsta kona á Íslandi er gerðist nunna og helgaði Guði algerlega líf sitt.

Nú líða 400 ár, og er komið að miðöldunum. Þá fæddist Ólöf Loptsdóttir ríka, dóttir Lopts ríka á Skarði á Skarðsströnd, einhver merkasta kona er Ísland hefir átt. Maður hennar var Björn Þorleifsson ríki, sonur Vatnsfjarðar Kristínar, dóttur Björns Jórsalafara. Við giftingu þeirra tengdust saman tvær ríkustu ættir landsins. Þau hjón bjuggu á Skarði og gerðust þar enn auðugri, því bæði voru framkvæmdarsöm og hinir mestu fjárgæzlumenn. Björn maður Ólafar var sæmdur riddaranafnbót og var nokkur ár hirðstjóri á Íslandi. Um það leyti voru Englendingar í ransferðum um landið og átti Björn í sífeldum bardögum við þá. Í einni þessari orustu féll hann og sjö menn aðrir, en Þorleifur sonur hans var handtekinn og hafður í haldi þar til hann var útleystur með miklu fé. Ólöfu var veitt eftirför en hún komst undan með fáa menn. Þá hjuggu þeir Englendingar Björn dauðan í stykki, létu hann í poka og sendu svo Ólöfu. Er sagt að hún hafi þá mælt: "Ekki skal gráta Björn bónda, heldur safna liði og hefna". Kærði hún harma sína fyrir Danakonungi; er sagt að honum hafi fundist mikið til um skörungsskap hennar og látið Englendinga borga háar skaðabætur. Einnig er sagt að Ólöf hafi tekið þrjú ensk skip á Ísafirði, látið drepa marga skipverja, en tekið 50 til fanga og látið þá vinna heilan vetur að grjótvinnu, í hefndarskyni fyrir mann sinn.

Ólöf bjó lengi á Skarði eftir dauða Björns. Hún stóð fyrir hirðstjórn með Þorleifi syni sínum þangað til árið 1470, og kvað mikið að dugnaði hennar og rausn. Hún var mikil trúkona, og lét banna þeim mat heilan dag sem eigi sóttu messur á helgidögum. Hún lét byggja Skarðskirkju, mjög vandaða að sögn, og stóð sú kirkja í 300 ár eða til 1780. Ólöf erfði mann sinn, og hefir þá vafalaust verið langríkasta kona á öllu landinu. Kaþólska kirkjan leit líka girndar augum þenna mikla auð, en ekki tókst henni að kúga fé frá henni þó hún hefði allar klær í frammi. Sagan segir að meðal annars hafi þá verið rituð hin svokölluðu "Skriptamál Ólafar Loptsdóttur". Þar eru upptaldar allar verstu syndir sem hægt er að hugsa sér — svo sem saurlifnaður, barnamorð og fleira. Alt var þetta ósatt og tilbúningur einn. Tilgangur klerkavaldsins með sögum þessum var sá að afla hinni kaþólsku kirkju fjár með því að setja henni hörðustu "skriptir". Það var þá algengur siður þeirra að fá auðuga menn til að játa sem flestar yfirsjónir, því fjárútlát þeirra urðu að því skapi hærri til kirkju og klerka. Með þessum rógburði átti að hræða Ólöfu til að gefa kirkjuvaldinu stórgjafir, en það mistókst algerlega.

Sagt er að á Skarði hafi verið haldnir heimilisprestar eins og þá var stórhöfðingja siður, og sá siður hefir haldist við lengi eftir hennar dag. Ólöf dó árið 1479, og er álitið að stórmannlegri rausnarkona hafi ekki verið á Íslandi fyr eða síðar.

Hér hefir þá verið stuttlega lýst þremur mikilvægum tímabilum í sögu hinnar íslenzku þjóðar. Landnáminu, kristnitökunni og

kaþólska kirkjuvaldinu rétt fyrir siðbótina. Á hverju þessu tímabili komu fram mikilhæfar atgerfiskonur, er urðu, hver um sig, fyrirmynd sinnar tíðar. Á landnámsöldinni var það Auður djúpúðga, er gekk á undan með góðu eftirdæmi, þegar hún veitti mörgum þrælum sínum frelsi og gaf þeim góðar landeignir, svo að flestir þeirra urðu mikilhæfir menn. Aðrir tóku þetta eftir henni, og hverfur þannig þrælahaldið smám saman úr sögunni. Um kristnitöku tímabilið var Guðrún Ósvífrsdóttir ein atkvæðamesta kona landsins. Fædd 26 árum fyrir kristnitökuna, var hún, eins og nærri má geta, rammheiðin að upplagi. Hún er því eitt hið bezta lifandi dæmi þess andlega stríðs er þá hófst og hélst þar til kristni hafði náð föstum rótum í landinu. Hjá henni rann saman það gamla og það nýja. Sál hennar var einskonar orustuvöllur, þar sem heiðni og kristni börðust um yfirráðin. Loksins bar þó kristnin sigur úr býtum, og hefir það hlotið að vera mesti ávinningur hinni nýju kenningu, að kona eins hrokafull, hefnigjörn en þó háborin og stórvitur, sem Guðrún var, skyldi opinberlega viðurkenna misgerðir síns forna lífernis, með því að segja skilið við það, gerast nunna og helga líf sitt algerlega hinum nýja Guði sem miskunnsamur og alvitur gat einn grætt sár hennar.

Á tímabilinu rétt fyrir siðbótina var það Ólöf Loptsdóttir sem eins og Lúther lét ekki hræðast af klerkavaldinu eða ógnunum þess. Hún var hin mesta trúkona, lét sér ant um kristnihald alt og sýndi það í verki eigi síður en orði, er hún bygði kirkju á eigin kostnað Guði sínum til dýrðar.

Eins og mikilhæfar konur nútíðarinnar styrkja góðan málstað með fylgi sínu og forustu, svo efldu þessar merkiskonur fortíðarinnar kristna trú í landinu með játningu sinni og fastheldni við kenningar hennar.



# Skýrsla forseta.

Kæru félagssystur—

Skýrsla sú er eg legg hér fram verður hvorki löng né margbrotin. Félag vort hefir ekki gert neina tilraun til að auglýsa starf sitt og enginn hávaði hefir verið gerður um það af neinum. Virðist mér það vera þroskamerki. "Í rósemi og trúnaðartrausti skal styrkur yðar vera", eru einkunnarorð sem vér teldum oss hrósun að mega tileinka oss.

Þó breyting yrði á síðasta þingi í stjórn félagsins hefir starf þess á þessu ári verið með líkum hætti og áður. Hin nýja starfsnefnd áleit heillavænlegt að feta í fótspor ágætra fyrirrennara sinna að mestu leyti.

Starfið í **Kristilegri fræðslu** hefir komist á fastari grundvöll en verið hefir. Meiri samvinna í vændum með framkvæmdarnefnd kirkjufélagsins. Sérstöku lexíuvali með útskýringum hefir verið útbýtt meðal kannara er verkið hafa með höndum. Vildi eg þakka Mrs. H. G. Henrickson og Mrs. Stephensen fyrir hve mikinn tíma og umhugsun þær hafa gefið þessu máli. Sömuleiðis Mrs. B. S. Benson fyrir prentun á lexíu vali og útskýringum. Þakka eg Guði fyrir að á bak við þetta starf er sterkur trúaráhugi þeirra sem að því standa.

**Ársrit félagsins,** verður prentað að þessu þingi loknu samkvæmt samþykt síðasta þings. Fjárhagur þess verður skýrður af ráðskonu ritsins Mrs. Guðrúnu Johnson. Eigum vér hennar dugnaði það að þakka að ritið gerir nokkuð betur en að bera sig. Þakka eg þeim konum sem svo frábærilega hafa unnið að því að selja ritið í sínum bygðarlögum. Það væri oss til heiðurs að þetta eina kvennablað Vestur-Íslendinga mætti vera eins vandað, eins kristilegt og eins sjálfstætt og unt væri.

Mig langar að biðja þingið að hafa það hugfast þegar kosnir verða ritstjórar blaðsins að mér væri kært að losna við minn part af því starfi. Vér ættum að nota sem bezt alla þá krafta sem vér eigum innan vébanda félags vors; tel eg það því óheppilegt að sama kona skipi sæti forseta og ritstjóra. Þess fleiri sem kvaddir eru til starfs, þess meiri ítök eignast félagsskapur vor. — Treysti eg því að þingið verði við þessum tilmælum mínum.

**Samkepni í framsögn** íslenzkra ljóða fer fram á þessu þingi samkvæmt samþykt síðasta þings. Mikill áhugi hefir verið fyrir því í þessu umhverfi; hafa þar um 70 börn lært hin fögru kvæði

sem valin hafa verið, og farið snildarlega vel með þau. Hvert þessi liður starfs vors verður starfræktur næsta ár er í höndum þessa þings.

Á síðasta þingi var rætt um möguleika til sjóðsmyndunar til styrktar fátæku námsfólki. Var málið falið framkvæmdanefnd til íhugunar. Komst nefndin að þeirri niðurstæðu að það yrði ofurefli að hrinda þeirri hugsjón í framkvæmd að svo stöddu, mætti taka það mál upp að nýju hvenær sem álitið er heppilegt að setja það á dagskrá.

Gleðiefni hefir það verið félaginu að mega eiga þátt í að taka á móti góðum gesti frá Íslandi, frk. Halldóru Bjarnadóttur, og leggja sitt til að greiða fyrir ferðum þessarar ágætu konu sem svo mikið hefir gert fyrir systur vorar á Íslandi. Óskar Bandalag Lúterskra Kvenna henni allrar blessunar og biður guð að blessa starf hennar.

Bindindismál verða rædd á þessu þingi. Vildi eg biðja að það mætti auka áhuga fyrir því málefni meðal kvenfélaga.

Að endingu langar mig til að innleiða nýja hugmynd, sem eg er sannfærð um að getur orðið til blessunar því málefni sem félag vort hefir helgað krafta sína. Útbreiðslu og viðhaldi kristindómsstarfi, einnig trúi eg því að í gegn um það gætum vér sjálfar fundið styrk. Getum vér ekki látið hugi vora mætast í sameiginlegri bæn á vissum tíma dags? Að hver ein taki örlitla stund frá sínum verkum til þögullar bænar. Mættust þá hugir vor allra þannig í bæn fyrir velferðarmálum kristinnar kirkju, starfi hennar og starfsfólki og þar sem vér mundum leita sálum vorum styrks Jesú Krists. Vildi eg taka stutta stund til þess að við íhugum þetta sameiginlega í alvöru og lotningu.

"Í rósemi og trúnaðartrausti" skal þá styrkur vor vera, — með óskiftum huga tökum vér saman höndum á þinginu sem í hönd fer og vinnum að þeirri hugsjón að félag vort megi verða verkfæri í Guðs hendi til að auka og efla áhrif og starf vorrar kæru lútersku kirkju.

Árborg, 2. júlí 1937.

**Ingibjörg J. Ólafsson.**

# Þingtíðindi.

---

Þrettánda ársþing Bandalags Lúterskra Kvenna var haldið í Riverton 3, 4, 5 júlí 1937. Var eftirfylgjandi þingskrá fylgt.

Fyrsti fundur, laugardag 3. júlí, kl. 2 e. h.—
Þingsetning
Skýrslur embættiskvenna og félaga.

Annar fundur kl. 8 e. h.—
Vocal Solo.......V. Benediktson
Erindi.......Miss E. Anderson
Piano Solo.......Agnes Sigurdson
Erindi.......Mrs. A. Wathne
Vocal Solo.......Mrs. Eyjólfsson

Sunnudag 4. júlí—
Guðsþjónusta í kirkju Bræðrasafnaðar kl. 2 e. h.
Kvöldverður í Geysir Hall kl. 6 e. h.

Þriðji fundur í Geysir-kirkju kl. 8 e. h.—
Piano Solo.......Baldur Guttormson
Erindi—"Samvinna kvenna á íslandi"
Frk. Halldóra Bjarnadóttir
Violin Solo.......Jóhannes Pálsson
Erindi—"Kraftur bænarinnar í daglegu lífi"
Mrs. Guðrún Johnson
Söngur .......
Piano Solo.......Lilja Pálsson

Mánudag 5. júlí, Fjórði fundur, kl. 9—12 f. h.—
Starfsfundur

Fimti fundur kl. 2—4 e. h.—
Starfsfundur
Sýning á hannyrðum kvenfélaga.

Sjötti fundur kl. 4—6 e. h.
Piano Solo.......Baldur Guttormson
Erindi—"Bindindi".......Lilja Guttormson
Almennar umræður um bindindisstarf.
Söngur.......Nokkrar stúlkur

Sjöundi fundur kl. 8 e. h.—
Söngur.......Ungar stúlkur

Piano Solo........................................Miss Snjólaug Sigurdson
Samkepni í framsögn íslenzkra ljóða (unglingar frá ýmsum bygðum keppa um silfur medalíu).
Tvísöngur.......................Messrs, Herman og Thor Fjeldsted
Erindi—"Konan og kirkjan"...................Mrs. B. S. Benson
Söngur.........................................................Ungar stúlkur

ÞINGSLIT.

Allir fundir hófust með stuttri guðræknisstund, og enduðu með því að syngja sálm.

Forseti setti þing og bauð velkomna frk. Halldóru Bjarnadóttur mætan gest frá íslandi. Skrifari las kveðju frá séra K. K. Ólafssyni forseta kirkjufélagsins þar sem hann þakkaði B. L. K. fyrir mikið og gott starf.

Einnig bréf frá séra Rúnólfi Marteinssyni og Mrs. Marteinsson, hugnæm kveðja og blessunaróskir til Bandalagsins og þessa þrettánda þings, lýstu þau söknuði sínum að geta ekki verið viðstödd eins og þau höfðu ásett sér.

Samkvæmt skýrslu kjörbréfanefndar, áttu sæti á þingi: 22 erindsrekar frá 13 kvenfélögum; 9 meðlimir stjórnarnefndar; og ein prestskona.

Sextán félög tilheyra Bandalaginu og sendu öll nema eitt ágætar skýrslur. Skrifuðu þessar 36 konur undir þingjátningu. Sóttu allir erindrekar alla fundina svo að segja undantekningarlaust. Var einnig mjög gestkvæmt á öllum starfsfundunum; og mikið meira en húsfyllir á skemtifundunum.

**Dagskrá og úrslit mála.**

**1. mál—Sunnudagsskólamál.**

Ítarleg skýrsla nefndarinnar lesin af Mrs. Henrickson, bar með sér að starfið í kristilegri fræðslu hefir orðið víðtækara. Börn á átta alþýðuskólum hafa notið fræðslu í kristindómi undir umsjón B. L. K.

Þakklætis atkvæði var vottað öllum er hafa haft starfið með höndum.

Mikill áhugi og alúð til starfsins kom í ljós í umræðum.

Samþykt var að halda áfram starfinu eins og áður og samvinna sé höfð með heimatrúboðsprestum kirkjufélagsins, og tilraun gerð til þess að koma á föstum sunnudagsskólum sem heimafólk veiti forstöðu.

**2. mál—Ritið "Árdís".**

Skýrsla ráðskonu Mrs. G. Johnson sýndi að í sjóði er $187.73.

**Guðrún Þorláksdóttir Einarsson** lézt að heimili sínu í Hnausa 7. september 1936, sextíu og níu ára gömul; ötul og ágæt kona. Meðlimur Breiðuvíkur-safnaðar.

**Guðrún Stefánsdóttir Björnsson** lézt að heimili sínu Ósi í Riverton 18. okt. 1936, áttatíu og níu ára að aldri. Var hún ein af stofnendum kvenfélagsins 'Djörfung' í Riverton fyrir fimmtíu árum og ávalt meðlimur þess. Hún var mikil trúkona og hin ábygilegasta og ágætasta kona.

**Sesselja Jóhannsdóttir Doll** lézt að heimili sínu í Riverton 18. jan. 1937, fimmtu og fimm ára að aldri. Meðlimur kvenfélags Bræðrasafnaðar. Margvíslega reynslu hafði hún borið með þreki og reynst ástvinum sínum frábærlega vel.

**Steinunn Magnúsdóttir Frímann,** látin að Hnausa 22 .febrúar 1937, áttatíu ára að aldri. Fræbærlega trygglynd, þrekmikil og dugleg, áhugasamur meðlimur Breiðuvíkur-safnaðar.

**Albertína A. Thorsteinsson** lézt að heimili dóttur sinnar í Geysir 30. marz 1937 áttatíu og fimm ára að aldrei. Var hún mesta gæða kona og ágæt móðir. Meðlimur kvenfélagsins "Freyja" í Geysir.

**Una Herdís Eyjólfsson** lézt í Riverton 16. apríl 1937, þrjátíu og átta ára að aldri. Undur fögur æfi lá að baki og unaðsríkar endurminningar lifa um hana. Hún var áhugasöm meðlimur Bræðrasafnaðar.

**Elin Sesselja Bergsteinsdóttir,** lézt að Geysir, Manitoba, 16. apríl 1937 áttatíu og þriggja ára að aldri, hugljúf og kær öllum sem höfðu kynst henni.

**Guðrún Pálsdóttir Briem** lézt að heimili sínu í Riverton, 18. apríl 1937, sjötíu og fjögra ára að aldri. Ókleift er að lýsa henni né starfi henar í fáum orðum. Var hún ein af stofnendum kvenfél. "Djörfung" fyrir fimtíu árum og lengst af forseti þess; forstöðukona sunnudagsskóla í mörg ár; ágæt starfskona Bræðrasafnaðar. Ógleymanleg verður hún okkur öllum er þektu hana og ein í hóp þeirra er við hlökkum mest til að sjá handan við hafið.

**Arnfríður Jónsdóttir Jónsson** frá Kirkjubæ, Hnausa, lézt að heimili sínu 4 maí 1937, áttatíu og átta ára að aldri. Ein af hinum þróttlunduðu sterktrúuðu og elskulegu konum. Allar endurminningar um hana eru sem sæll draumur.

---

"Friður sé með öllum yður
öllum sálum veitist friður
Aldrað jafnt sem aðeins fætt
Andað eftir draumlíf sætt
Alt sem dó frá heimsins hörmum
Hvílir rótt í friðarörmum."

**I. J. O.**

## "IN MEMORIAM"

### Mrs. Sigurbjörg Isabella Guðmundsson
### dáin 11. júní 1935

Er fjólan í brekkunni fölnaði ljúf
Er fjölbreytni lífinu gaf
Oss fanst eins og hverfleikinn fyrta' oss þeim dug
Að ferðast um ókannað haf
Ef vonin á verðinum svaf.

**Guðbjörg Elíasson**

Ákveðið var að halda áfram að gefa út ritið með sama fyrirkomulagi og áður; sérstakur áhugi kom í ljós fyrir því að ritið haldi áfram að vera al-íslenzkt að sinni.

Frk. Haldóra Bjarnadóttir tók til máls, sagðist vera ákveðin í því að vinna að útbreiðslu ritsins "Árdís" heima á íslandi, talaði hún hlýlega og vingjarnlega um ágæti bæði þessa vestur-íslenzka kvenna bandalags og blaðsins.

**3. mál—Sameiginleg bænastund fyrir kristilegt starf**
(bending úr skýrslu forseta)

Nefnd sett í málið vottaði forseta, Mrs. ólafson, þakklæti fyrir hönd þingsins fyrir að vekja máls á þessu, og lagði til:

1. Að ein guðsþjónusta á ári í hinum ýmsu kirkjum félaganna tilheyrandi Bandalaginu sé helguð kvenfélögunum og þeirra starfsemi og meðlimir sæki í einum hópi.

2. Að höfð sé þögul bænastund, í 2 mínútur klukkan 8 á morgni hverjum, þar sem konur biðja fyrir hver annari, og fyrir kristindómsstarfi; var nefndarálitið samþykt.

**4. mál—Bréfsamband milli stjórnarnefndar B. L. K. og hinna ýmsu félaga** (bending úr skýrslu skrifara)

Álitið af öllum mjög æskilegt og uppörfandi, og samþykt að biðja skrifara og öll félögin að gera sitt ítrasta til þess að svoleiðis samband fari vaxandi.

**5. mál—Samkepni í framsögn íslenzkra ljóða.**

Var skýrt frá að þar sem samkepni hefir farið fram á þessu ári hefir verið aðdáanlega mikill áhugi bæði hjá börnum og fulloðnum. Var samþykt að því sé haldið áfram næsta ár og stjórnarnefnd falin framkvæmd í því máli.

**6. mál—Program fyrir fundi.**

Konur lýstu ánægju sinni yfir þeim góða árangri sem hefir hlotnast af þessari tilraun. Konur sem aldrei höfðu talað opinberlega hafa flutt erindi oft bæði skemtileg og fróðleg. Starfsnefnd falið að senda út skrá yfir æskileg erindi og umtalsefni.

**7. mál—Að minnast látinna meðlima á þingi.**

Nefndarálit:

1. Að tekið sé upp á dagskrá þingsins reglubundin stund sem helguð er þögulli bæn til að minnast þeirra látnu.

2. Að forseti lesi upp nöfnin á meðan þingið stendur, sé þögn um stund, svo lesið "faðirvor".

3. Að forseta sé fengin nöfn þessi í byrjun þings.

**8. mál—Hannyrðasýningin.**

Sex félög höfðu meðferðis hannyrðir sem sýndar voru: kvenfélög Árdals-safnaðar, Árborg, Bræðrasafnaðar, Riverton, Fyrsta

lúterska safnaðar, Winnipeg, Baldursbrá, Baldur, Freyja, Geysir og Stjarnan, Árnes.

Frk. Haldlóra Bjarnadóttir mælti nokkur orð um hvað það þroskaði smekk og skapaði nýjar hugmyndir kvenna að skoða þessa muni úr ýmsum stöðum. Var ákveðið að reyna þetta næsta ár og starfsnefnd falin framkvæmd í því.

**9. mál—Bindindismál.**

Miss L. Guttormson flutti mjög vísindalegt erindi um málið. Var augljóst bæði á hinu ágæta erindi og skynsamlegum umræðum, sem fylgdu, hve skilningur almennings er að þroskast viðvíkjandi þjóðarmeinum sem geta aldrei læknast nema fyrir meiri þekking. meira andlegt jafnvægi sem glæða þarf strax í huga barnanna. Var svo samþykt tillaga að þingið lýsi yfir samúð sinni með bindindisstarfinu og hvetji hin ýmsu kvenfélög til að ljá því málefni lið bæði sem félög og einstaklingar.

**Kosningar** fóru fram sem fylgir:

Forseti: Mrs. I. J. Ólafson, Árborg.
Skrifari: Mrs. H. Daníelsson, Árborg.
Féhirðir: Mrs. J. Sigurdson, Árborg.
Aðstoðarskrifari: Mrs. G. A. Erlendson, Árborg.
Vara-féhirðir: Miss K. Skúlason, Geysir.
Meðráðakonur: Mrs. A. Sigmar, Glenboro; Mrs. B. Bjarnason, Langruth; Mrs. Louise Gíslason, Brown.
Ritstjórar Árdísar: Mrs. Ó. Stephensen, Winnipeg. Mrs. I. J. Ólafson, Árborg.
Ráðskonur Árdísar: Mrs. G. Johnson og Mrs. G. Jóhannesson, Winnipeg.
Sunnudagsskólanefnd: Mrs. Henrickson og Mrs. Benson, Wpg.

**Skemtifundir.**

Eins og dagskrá þingsins sýnir, voru skemtifundir, laugardags- sunnudags- og mánudagskveld, einnig klukkan 4 e. h. á mánudag var söngur og hljóðfærasláttur í sambandi við hannyrðasýninguna.

**Laugardagskveld:** Skemtifundur í kirkju Bræðrasafnaðar, tvö ágæt erindi flutt:

1. "Social Service", Miss Elin Anderson. Brá hún upp lifandi mynd af eymd og baráttu (líkamlegri og andlegri) vinnulausra í voru nægta landi.

2. "Merkar konur í fornkristni Íslands", eftir Mrs. A. Wathne. Mjög fróðlegt og skemtilegt erindi.

**Sunnudagskveld** var erindrekum og gestum boðið til Geysir þar sem einkar ríkmannleg máltíð (chicken dinner) var fram borin af kvenfélaginu "Freyju"; létu þær sækja gestina í bílum. Þar á eftir var skemtifundur í Geysir kirkju, sem var prýdd með fögrum blómum. Frk. Halldóra flutti lærdómsríkt erindi um "Samvinnu kvenna

á Íslandi". Fanst konum mjög hugnæmt að komast þannig í kynni við afstöðu og áhugamál systra þeirra heima. Mrs. Guðrún Johnson flutti erindi: "Kraftur bænarinnar í daglegu lífi". — Ágætlega samið og þrungið af trúaráhuga.

Veittu svo Geysir-konur öllum þessum fjölda fólks kaffi í samkomuhúsinu.

**Mánudagskveld:** Skemtifundur í Riverton kl. 8. Um eða yfir fjögur hundruð manns sóttu þessa síðustu samkomu þingsins, frá öllum bygðum Nýja-Íslands, Gimli, Riverton, Geysir, Hnausa, Árborg og Víðir. Stóð fólk í hópum úti á grundinni og notaðist við skemtunina í gegnum kirkjugluggana.

Mrs. B. S. Benson flutti uppörvandi erindi: "Konan og kirkjan". Einnig fór fram samkepni í upplestri íslenzkra ljóða, sem Bandalagið hafi stofnað til, fimm börn tóku þátt í samkepninni: Katrín Árnason, Guðmundur Helgason, Beatrice Ólafson, Vordís Friðfinnsson og Alice Baldvinson. Vann Beatrice Ólafson, Árborg, silfur medalíuna, var hún afhent henni af fr. Halldóru. En hinum börnunum gefin íslenzkt Nýja Testament frá Bandalaginu í þakklætisskyni fyrir þátttöku þeirra. Vottaði Bandalagið þakklæti til þeirra sem höfðu æft börnin.

Í lok þings var sungin sálmur nr. 229, og lesið "Faðirvor" sameiginlega.

Gáfu svo Riverton konur þessum stóra hóp kaffi, fórst þeim það svo hönduglega og greitt, að gekk kraftaverki næst.

Eins og kunnugt er, er þessi bygð sérstaklega auðug af listrænu ungu fólki sem gaf óspart tíma sinn og krafta til að skemta gestum þingsins. Var þetta þing mjög uppbyggilegt og skemtilegt í alla staði. Margar og góðar endurminningar verða lengi geymdar hjá gestunum. Þakkar þingið af alhug inndælar viðtökur og aðbúð í Riverton og einnig Geysir, á þessu þeirra þrettánda þingi.

**Hólmfríður Daníelsson**

(Ritari)

# Kallaðar heim.

**Guðrún Steinsdóttir Lárusson** frá Gimli, lézt að heimili dóttur sinnar í Riverton 31. marz 1936, var hún sextíu og sjö ára að aldri. Hin bezta móðir og ágætasta kona.

**Lilja Friðfinnsdóttir Thorsteinsson** lézt að heimili dóttur sinnar í Árborg 8. maí 1936, áttatíu og þriggja ára að aldri. Fögur minning hennar lifir í hjörtum allra er þektu hana. Hún var mikil trúkona, starfandi meðlimur Geysir-safnaðar og kvenfélagsins "Freyja" í Geysis-bygð.

**Sigríður Erlendsdóttir** lézt að heimili dóttur sinnar í Riverton 31. maí 1936, níutíu og sex ára að aldri. Um margra ára tímabil hafði hún verið blind, var hún sérlega gáfuð og skemtileg og ung í anda þó æfiárin væru orðin svona mörg.

**Ingibjörg Böðvarsdóttir Jakobsson** lézt að heimili sínu í Árborg 3. júlí 1936. Sjötíu og sex ára að aldri. Sérstaklega ljóðelsk og gáfuð, ágæt móðir og trúkona mikil.

**Björg Pétursdóttir Björnsson** lézt að heimili sonar síns í Framnesbygð 7. júlí 1936, áttatíu og sjö ára að aldri, hafði hún um langt skeið verið rúmföst, allir er þektu hana geyma hlýjar endurminningar um þessa góðu konu.

**Ingibjörg Jónsdóttir Geirhólm** frá Gimli, lézt í Selkirk 20. júlí 1936, fimmtíu og sjö ára að aldri, dugnaðarkona, trygglynd og ákveðin í skoðun. Var hún meðlimur Gimli-safnaðar.

**Sigurlaug Jónsdóttir Benediktsson** lézt í Riverton 20. júlí 1936. áttatíu og sex ára að aldri. Ágætis kona sem öllum vildi gott gera; meðlimur Bræðrasafnaðar.

**Lilja Hallsdóttir Eyjólfsson** lézt að heimili sínu í Riverton 14. ágúst 1936, sjötíu og þriggja ára að aldri. Endurminningar um hana eru einkar hlýjar og sveipaðar sólskini. Hún var frábær trúkona, þrekmikil og stilt, starfandi meðlimur Bræðrasafnaðar og kvenfélags þess safnaðar.

**Agnes Magnúsdóttir Vatnsdal** lézt að heimili sínu í Geysir 29. ágúst 1936, sextíu og átta ára að aldri. Um langt skeið var hún atkvæðamikill meðlimur kvenfélagsins Freyja í Geysirbygð. Þekt fyrir að hjúkra sjúkum og gleðja grátna.

*Öllum þeim sem auglýsa í þessu riti, vottar útgáfunefndin virðingu og þakklæti.*

# *Interesting Facts!*

1. Grace Moore's secretary was a student of the Dominion Business College just two years ago!
2. Two "D.B.C." graduates have recently secured positions in the Parliament Bldgs. Winnipeg!
3. Five "D.B.C." graduates have recently received telegrams requesting them to proceed at once to Ottawa for employment in the Parliament Bldgs. there!
4. A student of the Dominion Business College was awarded second place for Canada in the speed typing contest conducted by the Toronto Exhibition 1936!
5. At the last Civil Service exams. held here, first place out of 166 candidates was awarded to a graduate of the Dominion Business College!
6. Last year a young man advised us he had a position as assistant PURSER ON ONE OF THE OCEAN GOING STEAMERS provided he could learn typing in ten days! We put him to work and in ten days he could type letters accurately at fifteen words per minute -- not very fast but it secured him his desired employment!
7. It pays to attend the

# *DOMINION*
## *BUSINESS COLLEGE*

The Mall -- Cor. Memorial Blvd. and St. Mary's
and at St. James, St. John's, Elmwood